# Kvædi

Landsyfirréttar Assessors

# Benedikts Grøndals.



Utgefin og kostud

af

Sveinbirni Egilssyni.

Kennara vid Bessastadaskóla.

Jón Borgfirdingur.

Videyjar Klaustri, 1833.

Prentud af Prentara Helga Helgasyni.

# Formáli.

Eptirfaranda stutt ágrip æfisøgu Landsyfirréttar Assessors Benedikts sáluga Grøndals er bygt 1) á vitnisburdarskrá (*testimonium*) Meistara Hálfdáns Einarssonar, Rektors á Hólum, dagsl. Hólum í Hjaltadal 15. maí 1781; 2) á prófbeidslubréfi því (*petitum*), er Grøndal beidist orlofs af kennendum háskólans í Kaupmannahøfn, ad hann megi láta prófa sig í lagafrædi, dagsl. 1. marts 1791; 3) á bónarbréfi hans til Konúngs, hvarí hann sækir um viceløgmannsembættid í sudur og austurløgdæmi Íslands, dagsl. 16. maí 1791; 4) sum atridi á kvædum sjálfs hans, og 5) á søgusøgnum þeirra manna, er þektu og mundu til hans gløggvast, medal hvørra eg tel helztan Prentara Gudmund Schagfjørd, margfródan mann og minnugan, er var samkynnis vid Grøndal, alla þá stund er Grøndal dvaldi á Hólum og Innrahólmi.

Benedikt Jónsson Gröndal fæddist þ. 13. nóv.[1] 1762[2] ad Vogum vid Mývatn. Fyrstu undirstödu í skólalærdómi nam hann ad födur sínum, Síra Jóni Þórarinssyni, sem sídan lét dóttur mann sinn, og svo elzta son sinn, Þórarinn, þá djákna ad Reynistad í Skagafirdi, halda áfram kennslunni[3]. Hann fór nokkur sumur í kaupavinnu vestur á sveitir, og var í Vidvík hjá handlækni Jóni Péturssyni.[4] Þadan fór hann um haustid til Hóla, og var tekinn medal kennslupilta, þá var hann á 16. aldursári[5] (1777), var hann þar

---

[1]) Þannig petitum. [2]) í petito stendur 1763, en eg fylgi testimonio meist. Hálfdáns, sem segir hann verid hafa á 20. aldursári (annum ætatis jam vicesimum agens), þá hann útskrifadist; sb. og 5. skgr. hér á eptir. [3]) um þad mund orti hann rímur af Hrómundi Greipssyni, þá hann sat ád fé á sumrum; svo sagdi G. Schagfjörd mér. [4]) þar kvad hann um sumarid á túnaslætti vísu þessa: Betur greida högg eg hlýt (bls. 198). [5]) Þannig petitum. Gröndal sálugi lét eptir sig nokkur blød af stílabók sinni fyrir árid 1780, þar standa á titilbladi þessar stökur:

1. Byrgdu nordan brimla hvólf
bláar hrímsendíngar;

4[1] vetur undir kenslu þess lærda Rektors Hálfdáns Einarssonar, og útskrifadist 1781: hrósar meistari Hálfdán honum fyrir sidprýdi, spaklyndi og lítillæti, svo og fyrir idni og hepnar gáfur, einkum til skáldskapar og ordsnildar, og fyrir gódar framfarir í skólalærdómi. Næstu 2 sumur dvaldist hann ad Hólum, og var á kosti hjá stólshaldara Jóni Arnasyni[2], fødur Síra Bjørns í Bólstadahlíd. Jafnframt

frekar vikur taldar tólf
teptust Grímlendíngar.

2. Verdur tídin vel indæl,
vanast hríma litur,
þegar blída sólin sæl
sumartíma flytur.

A bókfellinu, sem þessi blød eru fest inn í, stendur nafn hans, og þar undir: medio tutissimus ibis, 1777; sem er árid, þá hann kom fyrst í skóla.

[1]) þannig petitum og testimonium. [2]) til hans gerdi hann sumarkvedju, þar í eru þessi 4 vísuord:

Ísa gráu framm med fløsum,
flísir lágu, sem ad vísu
lýdir sáu, og lit regnboga
lifrautt bláu dregid yfir.

þessi vísuord kann G. Schagfjørd; meira hefi eg ei séd eda heyrt af því kvædi. Ad um þau ár hafi verid ísaløg mikil, hvartil

var hann um sama leiti skrifari hjá meistara Hálfdáni, sem þá gegndi biskups verkum í Hólastipti [1] eptir andlát Jóns Biskups Teitssonar. Um haustid 1782 fór hann sudur ad Innrahólmi á Akranesi til Amtmanus Olafs Stephánssonar, hjá hvörjum hann dvaldi á 3. ár; segist hann [1] þar hast hafa mikid annríki vid brèfaskriftir og embættisskjala, og ekkert getad lesid sèr til gagns, til ad halda vid því hann numid hafdi í skólalærdómi.[2] En hann hrósar mjög gódsemi þess sæla höfdíngja, og segir hann hafa gefid sèr leyfi til utanferdar, og byrgt sig örlátlega med því, sem hafa þurfti til ferdarinnar. Hann lèt í haf þ. 8. sept. á skipi því, er hèt Sánkti Jóhannes; hafdi hann útivist harda og lánga, getur hann þess, ad hann kvídi fyrir, ad upp mundu gánga fararefni sín, en huggar sig vid þad, ad gud muni láta vel úr rætast; hann kvad:

**Akkers þúnga upp var lètt** (bls. 172).

Hann kom til Kaupmannahafnar undir árslokin 1785, tók skólalærdómspróf (*examen artium*)

---

þessi vísuord benda, sèzt af Eptirmælum 18. ald., bls. 622.

[1]) Petitum. [2]) Þar kvad hann eitt sinn, þá hann var ad rída net, vísur þær er so byrja: Storma gud, eg stefni þèr med stefja hendu (bls. 169).

í febr. 1786 med loflegum vitnisburdi, og þad heimspekilega próf í dec. sama ár, einnig med lofi. Því næst lagdi hann sig um 2. ára tíma (1787—1788) af kappi eptir ad framast betur í þeim lærdu túngumálum, latínu og grísku, so og hinum svonefndu fögru vísindum, sem hann frá barnæsku var mjøg hneigdur fyrir; tók hann þó aldrei neitt opinbert próf í þeim vísindagreinum, segist hann[1] vissra orsaka vegna hafa hætt vid þá idn, og idrazt þó eptir; mun hann af efnaskorti hafa ordid fyrir sig ad leggja þá vísinda grein; sem helzt þótti líkleg til atvinnu framvegis; minnist hann og þess í vísum sínum, ad hann hafi átt vid bágan kost ad búa í Kaupmannahøfn; hann kvad:

Sultur og seyra elti (bls. 200).

Frá 1789 til 1791 las hann løg, og var medfram frá 1788 til 1790 í þénustu hjá þeirri nefnd manna, sem gera átti skipun á kaupverzlun Íslands og Finnmerkur. Jafnframt var hann og þau 4 ár, 1788—1791, skrifari þess konúngl. íslenzka Lærdómslista-félags, og samdi þær snotru útleggíngar, sem finnast í ritum þess: um bólusetníngu á Íslandi, í 8. bindi: um pottøsku brennu af þángi, í sama b; um ávísun til ad bleikja lérept, í 9. B.:

[1]) petitum.

um húsblas, í 11. b.: um gáfna próf, í 9. b.[1]: auk útleggínga í ljóðum, sem finnast í ritum þessa félags. Þann 1. marzí 1791 bað hann kennendur háskólans bréflega, að prófa sig í næsta aprílmánuði í þeim vísindagreinum, er einkum heyrðu til lagafræðinni, og ritaði þeim um leið stutt ágrip æfi sinnar, sem síður er til. Þá lagðist hann í míslíngum, svo hann gat ei náð prófi í það sinn, og varð að bíða þess prófs, er haldast átti í júní mánuði. Með póstskipi, sem það ár kom frá Íslandi í aprílmánuði, hafði spurzt utan lát lögmanns Björns Markússonar; varð þá liðugt vícilögmannsembættið, því Vícelögmaður Magnús Olafsson fékk lögmannsdæmi eptir hann þ. 9. marzí 1791. Sótti Grøndal þá um vícelögmannsembættið, tók embættispróf í lögum þ. 24. júní 1791, leysti af hendi *specimen practicum* þ. 13. júlí næst eptir, og ödlaðist *characterem laudabilem* í hvorutveggja. Vícelögmannsembættið var honum veitt þ. 19. ág. s. ár. Hann fór það ár út til Íslands með póstskipi, eptir 6 ára dvöl í Kaupmannahöfn; það skip var kallað Svalan, lét Grøndal í haf þ. 26. sept. 1791; hann kvað:

Lof sé Guði, eg lokið hef (bls. 199).

---

[1]) framhald og endi þessarar snotru útleggíngar vantar, Eptirm. 18. ald. bls. 776.

Peir høfdu útivist lánga, 72 daga; braut skipid loks þ. 6. dec. vid Vatnsleysuströnd nálægt Breidagerdi[1]. Nordanvedur var grimt, og frost-harka mikil, og ísaløg hin mestu; mønnum og fé vard bjargad, voru skipverjar mjøg þrekadir og kaldir. Grøndal var hardur karlmadur, hann gekk frá skipsfjøl í sám klædum, og fékk mann til fylgdar med sér, og ætladi inn á nes. Peir geingu inn yfir Vatnsleysuheidi og inn Al-menning, uns þeir áttu skamt til Ottarsstada; þar mæddist Grøndal af kulda og fyrirfaranda vosi, og sigradi hann svefn, sofnadi hann þá, og vard ei vakinn. Fylgdarmadur fór á Ottars-stadi, og fékk þar mannhjálp, og flutti Grøndal til bæjar, var hann þá kalinn á tám og fíngrum; fekk hann þar adhjúkrun og næríng, og réttist skjótt vid. Hann fór til Garda á Álptanesi til prófasts síra Markúsar Magnússonar, og var þar um vetrinn; þ. 10. dec. var hann á Bessastødum ad erfi amtmanns Meldals[2]. Sumarid 1792 var hann á Lambastødum hjá

[1]) í Acta yfirréttarins á Islandi fyrir árid 1792 stendur á bls. 9, ad póstskip hafi strandad 6. dec. 1792, en þar á aud-sjáanlega ad standa 1791. [2]) þetta sagdi G. Schagfjørd mér, sem sjálfur fór med Stiptamtmanni Olafi sudur ad Bessastød-um til erfisins, og sá Grøndal þar.

síra (síðan biskupi) Geir Vídalín, reid þad sumar til alþíngis, og sigldi um haustid til Kaupmannahafnar til ad sækja um amtmannsembættid í suduramtinu eptir amtmann Meldal, sem andazt-hafdi þ. 19. nóv. 1791. Þetta embætti var þ. 17. apr. 1793 veitt Stiptamtmanni Olafi Stephánssyni; kom Grøndal þá út aptur þad ár[1], og hafdist vid á Lambastødum 1793—1795; þá kom út híngad amtmadur Víbe, er feingid hafdi vesturamtid, og sat ad Bessastødum á Alptanesi; fór Grøndal þá til hans, og var hjá honum árid 1795—96. Hann giptist 22. Jún. 1796 nú lifandi Ekkjufrú P. Grøndal, og bjó 1 ár á Ellidavatui, 1 ár á Bakka á Seltjarnarnesi, og flutti ad Nesi vid Seltjørn 1798, og bjó þenna tíma vid þraung kjør. En þ. 11. júl. 1800 var honum allranádugast af Konúngi veitt assessorsembætti í landsyfirréttinum; fékk hann þá nægilegt uppheldi sér og sínum. Þjónadi hann því embætti, þar til hann fyrsta laugardag í þorra 1810 vard yfirfallinn af þeim lángvinnu veikindum, er loks gjørdu enda á hans lífi[2]; vard þeim

[1]) líklega eptir þíng, því hann sat ei í yfirrétti þad ár; sjá Acta yfirréttarins.
[2]) Grøndal bjó í torfhúsi í Nesi, en hafdi bækur sínar uppi á hanabjálkalopti í Nes-

ei afhrundið með nokkrum meðölum eda læknisat, burdúm, þó leingi væri við leitad; er þad og víst, að sú stakа ummönnun, sem hann naut af sinni gódu konu, hefir með guds mildi bezt hjálpad til ad treyna líf hans. Hann fluttist til Reykjavíkur sumarid 1811, og bjó þar sídan, þartil. hann dó. Þ. 18. jún. 1817 fékk hann lausn frá embætti sínu med 600 silfurdala árleg-um forlagseyri, og burtkalladist þ. 30. júl. 1825; hafdi hann þá lifad 62 ár, 8 mánudi, 2 vikur og 3 daga [1], og ekki á heilum sér tekid nærfeldt í hálft sextánda ár; bar hann þessi lángvinnu og stundum óbærilegu veikindi med mikilli þolinmædi og trúartrausti: hans sálar þrek var so mikid, ad jafnskjótt sem af honum brádi, kom fram hans venjulega gamansemi, var hann þá heldur gledjandi og lífgandi þá sem honum voru

stofu; sat hann þar laungum vid bókalest-ur á vetrum, og vard opt svo kaldur, ad hann kendi sín ekki upp ad knjám; held-ur kona hans, ad þetta muni ollad hafa þeim veikindum, er seinna yfir hann komu, var þad sár tilfinníng í fótum og höndum.

[1]) Eptir því framanskrifada, sem eg bygg konu sonnu næst, verdur ad leidréttast áratalan í grafskrift yfir Gröndal í Klaust-urpósti 1825 bls. 154, og á spjaldi í Reyk-javíkurkirkju; sömuleidis í Klausturpósti s. á. á bls. 134.

nærstaddir. Hann var jardadur í Reykjavík þ. 8. ág. Hann hafdi átt 4 dætur vid konu'sinni: 2 dóu úngar, Kristín og Helga; 2 lifa enn: Helga, fædd 1800, giptist ad honum lifanda, Sveinbirni Egilssyni, kennara vid Bessastadaskóla, sat Gröndal 'í brúdkaupi hennar ad Videy 1822: Ragnhildur, fædd 1801, giptist, ad honum ondudum, Stepháni Gunnlaugssyni, Sýslumanni í Borgarfjardarsýslu.

Gáfum haus og skaplyndi hefir einginn samlegar lýst, en Stiptprófastur A. Helgason; hann kvedur so ad ordi[1]: "færri af þeim, er "honum lifdu samtída, høfdu betri gáfur en "hann; þó var gáfa til skáldskapar, bædi til ad "semja ljódmæli, og dæma um ljódmæli og "málsnildar verk, sú sem framúr skaradi, so hér "í var traudlega nokkur, sem væri hans jafníngi, "uppi á hans døgum í voru landi. Pau ljód-"mæli, sem sézt hafa frá hans hendi, bera vitni "um háar og sterkar hugmyndir og skapandi "ímyndunarkrapt; þad sem hann og samid hefir "af þesshattar verkum, sýnir, ad hann hafi "mjøg vandad verk sín, og ekki látid sér nægja "hid algeinga, hvørki ad þaunkum né ordfæri.

[1]) Líkræda vid jardarfør Landsyfirréttar Assessors B. Grøndals, Videyjar kl. 1833.

"Í þekkíngu vors módurmáls og hinna lærdu "túngumála, látínu og grísku, hafdi hann afl- "ad sér mikilla fjársjóda, fremur flestum, ef "ei øllum, sem med honum lifdu hér innanlands. "Í daglegri umgeingni var hann sidprúdur, "spaklyndur, jafnlyndur og skemtilegur. Med "hægd og fyndni notadi hann hvørt tækifæri til "meinlauss gamans sér og ødrum, hvørju sam- "fara vard og so hid uppbyggilega. Í sínum "lángvinnu veikindum var hann øruggur, trú- "og vongódur; kom þá fram gedsmunanna spekt "og sálarinnar táp í þoli, sem ádur hafdi sýnt "sig í gódlyndi og ímyndunarkrapti".

---

## Benedikt Grøndal.[1]

(ort af Landsyfirréttar Assessor, Jústitsrádi

### B. Thorarensen).

I. Ádur frá mærum meidi
mjúkstérkir hljómndu saungvar
fuglsins, er gól fyrri
fagurt í lundi Braga.
Nú gjørist hljótt í heidri;
horfinn er næturgalinn!

---

[1]) ádur prentad í Sagnablødum 1825—26, bls. 63.

Sakna menn hans, þó ei syngi
sextán hann fyrir árum.

2. Þrí, þó sótt hann særði,
og syngja mætti ei leingur,
krók einstök ýtum hans litust
annara fegri saungum.
Bar þá brátt fyrir eyru
bergmál fyrri raddar.
Nú má ei heyra, þó hlerum;
horfinn er nætur galinn!

3. Vinurinn, einn sá er öllum
óbrigdull reynist,
sóttþjáðum sínn honum augu
svefngrasi snerti.
Vaknadi önd, og vatt sér
restn skjótt frá hreysi,
og þaut á úngum vængjum
til ódáins skógar.

4. Fagurt gól hann fyrri;
fegur gelur hann þadra,
og lausn sína losar,
og lausnara þakkar.
Saungfugl sá hann þar fyrir,
sá var Jón Þorláksson nefndur:
blídlega bad hann velkominn
Benedikt Gröndal.

---

Þau ljódmæli, sem Gröndal sál: hefir eptir sig látid, eru hér sǫfnud í eitt. Sum af þeim eru ádur prentud í ýmsum ritsǫfnum, og var

það ætlan mín, að géta þeſs við ſérhvǫrt þeirra. En þetta hefir gleymzt við Muſteri mannorðſins, ſem prentað finſt í Lærdómsliſta fél: rita 10. 11. og 15. bindi: við grafſkrift yfir Arna biſkup Þórarinsſon (blſ. 93), ſem prentuð er á Hólum: yfir Magnús lǫgmann Olafsſon, í Minnisverðum tíðindum, 2. b. 422. blſ.: yfir Jón landfyſikus Sveinsſon, ſamaſtaðar 3. b. blſ. 255: ſaknaðarſtefin eptir Hannes biſkup Finnsſon, í Eptirmælum 18. ald. blſ. 776. Eg hefi viljandi ſlept grafſkriftum yfir apótekarana Bjǫrn Jónsſon (Minnisv. tíð. 2. B. blſ. 124) og Magnús Ormsſon (ſamaſtaðar, 3. B. blſ. 121), hvǫrjar eg hefi fundið í ſkjǫlum Grǫndals með hans hendi og leiðréttar af honum ſjálfum, þótt þær ſtandi nafnlauſar í Tíðindunum, eins og grafſkriftin yfir landfyſ. Jón Sveinsſon, hvǫrja eg hefi fundið með hendi Grǫndals ſál., eins og hún ſéſt prentuð í Tíðindunum, nema það að í handritinu er ſumſtaðar eyða fyrir ártǫlum og mánaðardǫgum. Ǫll kvæðin eru tekin eptir hans eiginhandar riti, að undanteknum nokkrum lauſavíſum, ſem menn kunnu. Sumt af þeſsum ljóðmælum er einúngis af honum byrjað, en eigi til lykta leidt; mundi hann hafa lokið við það, ef lengur hefði heilſa til enzt. Hann mun og haft

hafa í hyggju, að yrkja kvæði nokkurt með hrynhendum hætti (sem almenníngur kallar Liljulag) um bardaga Dana við Enska 2. apr. 1801; hefi eg fundið eptir hann á lausum blöðum fáein þar að lútandi vísuorð, t. d. um skothríðina frá Krónborg, þá hinn enski floti fór um Eyrarsund:

> Drundu hvell um Dana lendur
> daudans org frá Krónuborgu.

Um siglíng Enskra frá Eyrarsundi:

> Lángar sleiktu leiptur-túngur
> lödrug bord fyrir Skánar jödrum.

Um það, er Enskir lögðu flota sínum fyrir Kaupmannahöfn:

> Fýldu grøn und gyltum spónum
> gángi frekir Breta drekar.

Um það, er Enskir köstuðu spreingi-kúlum inn að borginni:

> Bifdust lopt, er bylgjum hreifdu
> bødvar tól í parabólum;
> sprúngu hnettir vígs um veingi
> Vínguls-markar drottinn kríngum.

# Inntak.

## I. Utlagt, bls. 1—74.

Bls.

*II.* Frumkvedid, bls. 75—204.

## 1. Vinavísur og lukknóskir.



## 2. Grafskriftir og erfiljód.



## 3. Vísur um forsjón Guds.

## 4 Mansaungsvísur.



## 5. Aldafarsvísur.



## 6. Um fornmenn og aðra.

## 7. Aðeilu-vísur.

## 8. Um kvedskap.

## 9. Vísur ýmislegs innihalds.

## 10. Um sjálfan sig.

# I. Útlagt.

# Musteri mannorðsins

af

## Alexander Pope.

1.

Um árstíð milda,
þegar ofan fallnar
regnskúrir láta
lønd øll gróa,
og sprettandi blóm,
af blundi vakin,
og þrútnir knappar
þreyðan dag kveðja;

2.

Þegar nývaknað
vermum finnur
láð sig umhverfis
lostið geislum;
þá er sætur høfgi
sorgum mínum
øllum í ró
ruggað hafði;

3.

Og mér úr brjósti
brimi kvenna
sjálfur harðlega
hrakinn þótti;
í það mund
er morgun framleiðir
hverfingar sjóna
huldu-fullar,
og blíðhøfgi glennir
gullna vængi —

4.
Þá bar fyri mig
mynda fjøld
ordulaus
í sífellu;
af þeim øllum
sú er eptirfylgir
vitran skynsamleg
verda mundi.

5.
Þóttumst eg standa
þá í millum
jardar og sjófar
og upphimins,
og skepna mér
øll saman
þótti opin
fyrir augum liggja.

6.
Hékk jord und mér
í jafnvægi
sinna krapta,
svam í lopti:
og fjalltindar
framskørudu;
girt var hún øll
grænleitum sæ.

7.
Hér báru fyrir
berir klettar
og óbygdar
eydimerkur;
þar gat ad líta
þorp reisugleg;
og græn - typtir
titrudu skógar.

8.
Gaman var þad auga
umlitaudi
skip ad sjá
skrids til lagin.
Hinsvegar mændu
yfir háum eikum
mikilleikar
musteranna.

9.
Fádar urdu stundum
þessar fridu sjónir
heidríkustum
rødul - geisla;
lidu stundum
lendur hverfar
burt frá mér
byrgdar skýjum.

10.

Medan eg í stórri
mjeg vídáttu
allt í kríng
um litadist,
heyrdi eg ad skynd-
íngu
skell ógurlegan,
sem margra hluta
magnadan falli.

11.

Var hañ sem þruma
þyti í fjarska,
eda fallbodar
orgi vid strendur;
sást eg þá um
fyrir ofan mig,
og gat ad líta
glæsilegan sal.

12.

Var mænir hans
mjeg háreistur,
allt umhverfis
orpinn skýjum,
bygdur yfir jekuls
brún nokkurri;
ert ug var uppgánga
og illur vegur.

13.

Stein fjall þetta
furdulega,
sem marmari
mundi varískur,
og leit
út í fjarska,
sem steinn einlægur
stædi fyrir.

14.

Eg sá þar letur
ymissra nafna,
þau er ill tíd nær
afmád hafdi;
ádur var þó ord
þeirra
í alræmi,
og skáld høfdu lofad,
þau skyldu æ vara.

15.

Þar voru nýgrafin
nøfn hálærdra;
sá eg þángad aptur,
en þau sokkin voru;
leit eg kunstdómendur
krapsa í nøfn manna,
og med erfidi
egin setja.

16.

En nøfn þeirra
numu eigi stadar,
eda vøruðu leingur,
en virkta nøfn hinna;
lidu þau frá sjónum,
og í ljós komu
aptur þau,
er afmád voru.

17.

Ei vard salur þessi
einum saman
skaðvinda þusum
þrálega fyri:
mátti hann og kénna
mjøg nærgeingrar
sunnu varma
sárheitan opt.

18.

Því ad ordrómur
þolir eigi
hitt er midar
úr mundángs hófi;
fellur hann eins
af freku lofi,
sem lasti manna
mátalausu.

19.

Þó vard hvergi
þetta musteri
skemdum fyrir
af skadvænu lopti;
hélzt þar graf-ala
groptur næmasti,
sem hann á krystall
komid hefdi.

20.

Sízt var jøkulgnýpu
í salar skugga
hætt vid ad brádna
né hvassvindum skak-
ast;
nøfn þau, er um
aldra
ótelulega

stadið hefðu,
standa æ þannig.

21.

Nýeru þau jafnan,
og né einum
undirvorpin
endalyktum;
út sig þau breiða,
og æ verða
með leingri tíð
meir glansandi.

22.

Svo rísa fjell
um Zemblu norður
(fegur eru þau verk,
er frostið vinnur)
hátt uppí lopt
með hvítum fágum,
og setja glampaðar
sjáfar-strendur.

23.

Bleikfjólir hoppa
hvatskeytlega
kraptalausar
lángt í fjarska;
og þeirra glampi
yfir dansar
leg ísa
kostin hvergi.

24.

Æfinlegur snjór
stærir orpna dýngju,
uns gljá-tindar him-
in
grúfandi styðja;
grundvallaðar sem
Atlass
þær gráu máttsúlur,
þykja stadið hafa
þúsund vetra.

25.

Á þeim grundvelli
uppi hvílir
mann-orðs musteri
mjeg hátimbrað;
furðu mikill salur,
og frá eg hann aldregi
væri með gjerður
manna höndum.

26.

Var bygging hans
betri ellu því,
er ríklunduð
Róma-borg eygði,

eda Grikkland
hid listaríka,
eda bern hinnar ǫldnu
Babýlónar.

27.

[1]) Fjórir voru stafnar
fyri því musteri,
af ólíkri smíd,
en einni snilli;
málmport fjøgur
yfir miklum støplum
blasa vid himins
høfud-áttum.

28.

Hér prýda lognir
hers oddvitar,
þeir er í forneskju
fæddir voru;
eda menn gamlir
æruverdir,
sem konst- eda vopn-
simi
krónad hafdi.

29.

Þeir er borgir reistu,
edur bugad høfdu
óþjálgan lýd
innan múrveggja;
kempur hleyptu brún-
um
í kvikum marmara,

---

[1]) Musteris byggingin er hér útmálud sem ferskeytt. Á þess fjórum hlidum eru opin port, sem vita mót (eda heilsa, sem í text-anum stendur) høfudskautum veraldarinnar, og á þad ad merkja, ad allar þjódir nái þar inngaungu í portin. Vesturhlidin er bygd á gríska vísu: sú dóriska orda edur bygging-ar háttur, var Kempunum einna helzt ætl-adur, og ødrum er mikils þótti umvert. Þeir menn, um hvorra líkan-styttur sidar verdur talad, voru mest í alræmi fyrrum á Grikklandi, bædi søkum vopnfimi og annara kunsta. Pope.

Þóttu løg-gjafar
þeinkja á steini.

30.

Horfdu til vesturs
háleitar dyr,
studdar marmara
stólpum dóriskum,
kríndir voru þeir
kunstflúri gømlu,

hleypt var upp skurd-
verkum
á hømrudu gulli.

31.

Ríkan sá þar The-
seus [1]
í røggfeldi,
og skelfilegan Per-
seus [2]
af skildi Mínervu;

---

[1]) Theseus var son Ægei eda Ægis Atenu Kóngs, og vard hann frægur mjøg af hreysti-verkum sínum. Røggvar-feldinn meina eg Pope láti hann hafa yfir sér vegna þess, ad slíkar kempur brúkudu mjøg í fyrndinni lod-kápur til yfirhafna, bædi af ljóns og annara villidýra húdum. B. Gr.

[2]) Perseus var sonur Júppiters og Danaes, dóttur Akrisii Argiva kóngs á Grikklandi. Hann drap óvættinn eda trøllkonuna Medú-su, er einnig var Gorgon eda Gargan køllud. Perseus hjó høfud af henni, og hafdi jafnan med sér sídan, brá hann því upp fyrir óvinum sínum, og þá ædrudust þeir. Eptir þad lét Minerva marka Gor-gons haus á skjøld sinn, og sést hún sídan hvervetna med hann uppmálud. B. Gr.

hér stydst á kylfu fram
Herkúles[1] mikli,
þreyttur af stórverkum,
og starfar ad herfaungum.

32.

Hér sýngur Orpheus[2],
en háfar eikur
svífa eptir hans
saungva hreimi,
og med rótum
ryktar úr jördu
skáld umhverfis
skuggum hylja.

33.

Hinsvegar lætur
hvella villa
Amphion[3] lýru
laun-kraptada,
og ad skyndíngu
skýtur upp
alltraustlegum
Thebes veggjum.

---

[1]) Þessi hegdan eda limaburdur Herkúless eru hér afmálud eptir hans ordlögdu styttu á Farnesi í Italíu. Pope.

[2]) Orpheus var ættadur frá Thracíu. Hann var skáld mikid, og segja skroksögur, ad hann kunni svo vel á hörpu, ad hann lokkadi til sín eikur og steina, þá hann sló. Mun þad þó ega svo ad skilja, ad hann med spaklegum fortölum, kvedskap og ordsnilli hafi feingid villt og ósidad fólk yfirtalad til sidlætis. B. Gr.

[3]) Amphion var einn af sonum Júppiters. Þad hafa menn ad ýktum sögum haft, ad hann lék svo vel á hljódfæri, þad er lýra kallast, ad borgin Thebe á Grikklandi hafi uppbygzt þessvegna sjálfkrafa. B. Gr.

34.
Tekur í Cithærons[1]
tindum undir
margkvedid bergmál
vid hans mjúku
raddir,
og helst fjalls
hrynjandi vard
ad brádgjørvum
borgar múrum.

35.
Hér þóttu rísa
hækkandi súlur,
og musteri
mikil hefjast:
þenjast hvelfíngar,
og hvirfla upp turnum,
og ball-steplar
stíga til himna.

36.
Var hin eystri hlíd
vegleg sýnum,
brann hún af demanti
og barbara gulli.
Afbragd þótti Nínus
Assýra jadar,
og hefundurinn Persa
hljódflogins nafns[2]

[1]) Cithæron var fjall eitt skamt frá borginni Thebe. B. Gr.

[2]) Cýrus stiptadi þad persiska einvaldsdæmi, svo sem Ninus þad asSýriska. Þeir persisku vitríngar (magi) og Chaldæarnir (medal hverra Zóróaster var hinn helzti) løgdu mesta stund á náttúru-vísinda kukl (magia) og stjørnu-þýdíngar, og var í þeim hvertveggjum á vissan hátt innifalin-øll speki Asíumanna í fornum sid; en eigi høfum vér þadan søgur af neinum sidspekíngi, ad undanteknum Confúcíus enum mikla Kínar-løg-

37.

Hinsvegar stódu
hátídlega
konúngs vitríngar
í kyrrlum laungum;
ofradi Zóróaster
íbyggilegur
tøfra = sprota
í tallausa hrínga.

38.

Þar sá Kaldea
þjódspekínga,
huldir voru þeir
í hvítum úlpum.
Fór þar nærri
flokkur Bramína[1],
er úti dýrkudust
á eydiskógum.

39.

Bennudu þeir mána
ad bærast í lopti,
og kølludu skugga
kropplausa framm
til midnættis verdar
í myrkoidu,
þá eingi fyrr
of farid hafdi.

40.

Margar létu þeir
myndir verda,
og loptvættir
fyrir augum fløgra;
visdu þeir tøfra-
krapt
Talisma[2] og Si-
gilla[3]

---

gjafa, er lifad hefir hérum fyri tveim þús-
und árum. Pope.

[1]) Braminar edur Brakkmanir voru spekíng-
ar nokkrir eda tøframenn austur á India-
landi. B Gr.

[2]) Talisma heitir málm-bílæti nokkud, er
Tyrkir brúka til tøfra sinna; svo kallast einnig
nokkurskonar mynd edur figúra af steini edur
malmi, er hjátrúarfullir menn í fyrndinni
gjørdu sér, hvørt sinn er sólin gekk inn í merki
nokkud á merkjabaugnum (ecliptica). Þessa

og á stundir pláneta
størdu med síkni.

41.

Yfir þeirra flokk
finn eg einnsaman
Confucíus vitríng
kominn vera;
fyrstur hann kéndi,
svo ad fródir viti,
nytsama speki,
nám sidgæda.

42.

Sal skreytti mjøg
sunnanverdan
ættir háleitar
egypzkra klerka [x];
stódu þeirra gyltir
stallar innhvolfdir.
Lønd þeir mældu,
og margstirnda knettu
ritu þeir um,
og radir túngl-ára.

---

mynd festu þeir um háls sér, og hugdust géta framkvæmt med henni marga yfirnáttúrlega hluti. B. Gr.

[3]) Sigilla voru nær því hid sama og Talismurnar B. Gr.

[x]) Mestøll speki hinna egypzku presta í fyrndinni var innifalin í jardmælíngum og stjørnulist. Ritu þeir einnig søgur þær allar, er gjørdust á Egyptalandi. Sesóstris var þar sú mesta hetja, er menn vita til, og hefir Díodórus hinn Sikileyski verid lángordur um athafnir hans og sigursæli. Segja menn hann hafi látid þá konúnga draga vagn sinn, er hann yfirvann í orustum. Sú hegdan eda limaburdir, er hans líkneski hefir í þessu kvædi, er løgud eptir frásøgu Heródóts um líkneski nokkud af Sesóstri, sem til var á hans døgum. Pope.

43.
Hátt sá eg uppi
hafinn í kerru
Sesóstris ræsi
ríklundadastan,
drógu konúngmenni
dýrar vegur,
hrundi þeim gullin
um herdar bryuja.

44.
Hélt sá med annari
hendi boga,
hin frá eg skelfdi
skotvopn biturt.
Voru beinþreknir
berserks limir
gullspánga hreistrurs
hlodum sollnir.

45.
Medal líkneskja
mændu til himna
undrunarverdir
óbeliskar.
Lærdum fengu múrum
mestrar snilli
híeroglyfiskar
hugarmyndir.

46.
Var nordursída
salar um horfin
Gauta[1] ramsmíd
gamallegri.
Hafdi þar ofhladid
oflæti barbara
til snoturleika
snilliverkum.

---

[1]) Byggíngar-hættinum er hér skipad eptir því sem tídt var í þessum parti veraldarinnar Lærdómar þeirra nordlægu þjóda eru þúngskildari en annara. Zamólxis var lærisveinn Pythagorass og kéndi hann Skýtum fyrstur sálarinnar ódaudleik. Odinn edur Vódinn var hinn mesti løggjafi og hetja med Gautum; segja þad søgurnar, ad honum hafi hætt verid vid fallsótt, og sagdi hann áhángendum sínum,

47.
Oskaplegir stólpar
upp þar risu,
settir ad ofan
med sigurmerkjum:
allir voru þeir
hinum óljósu
rúna steinum
ristir umhverfis.

48.
Sat þar Zamólxis
sundureygur;
lídur hér ad Odni
leidslu-fallsýki.

Keikir stódu hinnig
yfir koparsúlum
Bardar og Drú-
ídar[1]
blódi drifnir.

49.
Gátu skotid enn
gráar fyrir málmi
skýtiskar kempur
skelk í bringu.
En þeirra hörpu,
sú er ádur gall,
var nú eingi streingur
yfirspentur.

---

ad hann í slíkum adsvifum feingi vitranir þær er kéndi honum lagavizku. Sagt er, ad hann sé höfundur til rúnastafanna. Pope.

[1]) Drúídar voru prestar med Gautum, og Bardarnir voru skáld þeirra. Þetta fólk er ordlagt mjög vegna sinnar grimmlegu hreysti. Þeir héldu þad væri ósæmd ad andast á sóttarsæng og kosindu sér þess-vegna í daudann, í von um komanda líf, og af girnd til ad ödlast þann lofstír, sem Bardakvædin skyldu leifa þeim fyri verk sín. Pope.

50.

Sá þar úngar hetjur,
er í ár daga
fargað hefðu fjervi
að fríum vilja,
svo að þeim lofstír
lifði skálda
(harðasta málmi
hverjum traustari).

51.

Þessir og aðrir
þúsund fleiri
orðs efaulegs,
en eilífir af skrek-
segum,
hátimbraðrar
hallar gafla
alla frá eg skreyttu
utanverða.

52.

Voru þar múrar
að verkun og birtu
gleri glíkir,
og gagnvart urpú
ýmissum fágum,
þær er andspæna
hluti
mjeg svo prýddu
eða margfölduðu.

53.

Þeir voru múrar
morkskildastir
hvervetna settir
hugaemyndum,
orðstír skreklegan
alls er gjerðu
með sinni þýðíng
miklu stærra.

54.

Hristist salur,
hurðir upp skella,
gína hvelfingar
og gullin ræfur,
legð á þúsund stólpa,
með lárber-krensum
og arnar stríðfánum
alls um horfna.

55.

Blika salar veggir
af bernsteini
gegnumskærum
og glóandi,
hríngudust laufverk
af hreinu gulli

undir gullkneppum
gildra súlna.

56.

Svo brunnu gimsteinar
í bjúgu rjáfri,
sem í upphimin
alstirndan sæi;
héngu ridladar
radir lampa,
þeirs æ brenna
med braganda ljósi.

57.

Stódu hvervetna
hjá vídum dyrum,
sagna meistarar
í mjallegum klædum;
yfir stedvum þeirra
stód líkan tíma,
var hann sigð-efugur
og vængjum bundinn.

58.

Innar stódu kempur,
er ad orustum
bádróm høfdu sóttan
á dreyrgum vøllum.
Stód hálegur trón
stridfánum hoefinn,
úngur sat þar alls
valdur [1],
nema egin þótta.

59.

Sparn hann med
fótum
spírur og ennihled
Asíu konúnga
ofurhyggjandi;

---

[1]) Alexander hinn mikli. Tiara kalladist sá høfudbúníngur, er einúngis Asía konúngar brúkudu fyrir kórónu. Sú girnd, sem Alexander hafdi til þess, ad menn skyldu trúa hann væri sonur Júppiters Hammons, þrýsti honum einnig til ad bera horn þessa afgudar, og láta drífa sig hornóttan á mynt-peninga, og gjørdu þad líka margir af hans eptirkomendum. Pope.

og med hefdi,
hornum prýddu,
guddómi Lýbiskan
laug sér ad faderni.

60.

Þar var og Cæsar,
hann er bádar hefdu
Mínervur skreytt-
an
mest af kappi.
Þad var hann Cæ-
sar,
svo ad menn vitu,
allrar veraldar
og sinn egin herra.

61.

Óbifanlegur
og hinn mildasti
var jøfur sá
í vøldum øllum;
og naumlega
fyrir óbænum vard
í falli sinnar
fósturjardar.

62.

Hina var þar, samt
helst ad finna
er aldregi brutust
til yfirráda;
heldur med óførum
egin gæfu
fridkeyptu þjódir
fósturjardar.

63.

Yfir flokk þann
framskaradi
Epamínondas
ødrum meiri,
og Tímoleon [1],
sá er ordstír gat

---

[1]) Hann frelsadi líf bródur síns Tímófanis í orustu þeirri, er Argívar héldu vid Korintumenn; en deyddi hann þó sjálfur sídar, þegar Tímófanes vildi brjótast í voldin, því hann mat skyldu sína vid fødurlandid, meir en blódteingdirnar vid bródur sinn. Pope.

vid bródur síns
banaordi.

64.

Sá var hugrakkan
Scipíónem[1],
réttan frelsara
Rómaveldis.
Sá var mikill
í sigurkerrum,
mikill var hann einnig
án nafnbóta.

65.

Par var Aurelíus
þjódspekíngur,
í hvers fródu sál
med frekasta veldi
dádir hefdu allar,
og dygdir id sama,
takmarkalausar
tekid heima.

66.

Ohlísid frá eg hann
yfir egin verkum
daglega léti
dóm uppkvedinn;
aldrei var edlíngi
annad sýnna
eda meir um hjarta,
en mannkyns elska.

67.

Pá var hinum skipad,
er hefdu margt lidid,
kempum, þeim er ord-
róms
klíd feingu lægra,
og vid ávirdíng
einhverja ridinn.
Var þad hæglát sveit
helgra dygda.

68.

Medal þeirra var
mestur allra
guddómlegum Só-
krati[2]
sómi feinginn,

---

[1]) Scipíó Africanus, er bardist vid Hanni-
bal frá Kartagó-borg og sigradi hann.
Aurelius var keisari í Rómaborg. B. Gr.

[2]) Sókrates var einhver hinn mesti spekíngur

og Arístídi [1],
er óþakklátastir
Atenumenn
í útlegd hrøktu.
Æ var hann rétt-
látur,
nema einusinni,

þá er nafn egid reit
á refsíngar-skel.

69.

Þar var Fócion [2],
þrúnginn pínslum,
og jafnar Spartara
Agis [3] konúngur.

---

[1] á Grikklandi. Atenu-menn ákløgudu hann fyrir gudlast, og neyddu hann saklausan til ad drepa sig á eitri. B. Gr.

[1]) Hann var svo frómur og réttsýnn, ad menn kølludu hann þessvegna Arístides hinn réttvísa. Þegar hans medborgarar vildu med skeljadómi (ostracismo) hrekja hann í útlegd, þá skyldi hver madur, sem vandi var til, rita nafn þess á skel, er þeir vildu gjøra útlægan; þá kom bóndi nokkur til Arístides, er ei kunni sjálfur ad rita, og bad hann ad rita Arístides nafn sinna vegna; Arístidi vard eigi bilt vid, og ritadi hann ad bragdi sitt egid nafn á skelina. Pope.

[2]) Fócion var einn af Atenumønnum, ágætasti madur, og þó sifátækur Hann vogadi lífi sínu og øllu því, er hann átti, fyrir þá í Atenu-borg, en þéssir dæmdu hann til dauda sýknan saka. B. Gr.

[3]) Þad mun vera Agis konúngur Arkidamus son, sem féll vid mikinn ordstír í þeim bardaga, er Spartarar áttu vid Macedóna. B. Gr.

Sýndi óvunninn
Kató[1]
sár endur upprisinn;
ei hitti Brútus[2] þar
illa fylgju.

70.

Hér sá eg mitt
í helgum kóri[3]
súlur dýrar gnæfa
ser yfir ödrum.
Stódu þær um altari
ordróms hálegs,
sigradi skrant þeirra
salar veg allan.

71.

Stód á hinni fyrstu
Hómerus mikli,
allur var hans trón
af eilífum demanti.
Heilög prests-lín
huldu mærbar fódur,

---

[1]) Þad var Kató frá Uteku, er lét fallast á sverd sitt, þá hann heyrdi fall Pompejuss mikla. B. Gr.

[2]) Markús Brútus, er níddist á Cæsari. Skömmu sídar sá hann vofu í svefni, og spurdi hverr þar væri: eg er þinn illi andi, sagdi hún, og hvarf sídan. B. Gr.

[3]) Í midju musterinu, allt í kríngum trón mannordsins, stódu menn þeir, er á öllum öldum urdu frægastir af lærdómi sínum. Þessir eru hér afmáladir í þvílíkri hegdan, er einna best útlistar þeirra marg-háttada sinnislag. Stólparnir, sem þeir standa á, eru skurdverkum prýddir, og eru þau valin med tilliti til hinna ypparlegustu klausna í ritum þeirra. Art og edli þessara skurdverka eru einnig lögud eptir art og edli ritanna sjálfra. B. Gr.

skégg hrundi silfur-
legt
stáls um bríngu.

72.

Þótti ásjón hans
alvœrugefin,
þó ad hann á bádum
blindur væri.
Aldradur hann þótti,
en aldur né hafdi
gjert hrumlegan
gædíngmenni.
Var þar umhverfis
ort á sítum
tjón og orustur
Trójumanna:
kleymar ólmur Tý-
dídes[1]
Kýpra drottníngu,
fellur Hektor hraust-
lega
fyri hamremum Akk-
illi[2].

73.

Var hann eptir sigur-
vegnum dreginn
umhverfis Tróju
alla múra.
Þótti merki sjá
(en þad voru kunst-
prettir)
hræríngar og lífs
í hverjum parti.

---

[1]) Diomedes Týdeusson. Hann var ein-hverr hinn vaskasti af hersöddvitum Grikkja, er fóru herforina til Trójnborgar. Hómerus telur honum þad til gildis, ad hann særdi gydjuna Venus á hendinni; en klæki vann hann þá raunar, er hann á konum bardi. B. Gr.

[2]) J þeirri eingelsku útgáfu af Popes verkum, sem eg hefi brúkad, stendur: ad Patroklus hafi fellt Hektor, en þad ber eigi saman vid sögu Hómers, er lætur Akkilles verda

74.
Voru þau kunstverk
tjerf,
og vitni þau báru
um fjergar hug-
myndir
þess-er fjallad hafdi,
alls honum væri mest
audskilni lagin,
hér og þar var snoturt
hirduleysi.

75.
Sá þar enn eina
súlu gullega
og trón upphafinn
af hreinu gulli.
Hafdi kunst óbreytt
allt fullkomnad
og í øllum pertum
athygli varid.

76.
Hér sat þá madur-
inn
frá Mantúa [1]
og hægferdugum
hrósadi sigri.
Komid var hegdan
alltri
kurteislega
og vel stillt
yfirbragdi.

77.
Mikill var hann
en ei mikillátur,
svífandi í hátign
hæverskleari;
lotníngarfullum
lét hann augum
hinsvegar æ kastad
ad Hómeri [2].

---

honum ad bana, og hefi eg því leyst mér ad setja nafn hans hér, en ekki Patrokluss. B. Gr.

[1]) Virgilius skáld, er fæddur var í borginni Mantúa í Italíu. B. Gr.

[2]) Því hann lagadi mjeg kvædi sín eptir Hómers. B. Gr.

78.
Breiddu sig út
ad bátum hlidum
látínskar orustur
í loptverkum.
Fellur þar Túr-
nus [1]
(og í Túrnós fellnum
brennur af augum
heipt
blundskakandi).

79.
Dídó flatmagar [2]
yfir dauda-kesti.
Svignar Eneas
und sínum aldna
fødur [3].

Ljómudu hér um
Tróju
logar há-kintir;
berdu var þar gulli
fyri bál komid.

80.
Tindrudu skært
yfir tróni háfum
greyptir bókstafir
og gulli fánir,
þar var ad lesa
í látínu máli:
Kved eg um her-
vopn
og karlmenni [4].

---

[1]) Hañ var Rútúla kóngur; átti Eneas orustu vid hann í Italíu, og fékk sigur. B. Gr.

[2]) Hún var drottníng í Kartagó-borg. Eneas hafdi verid á vist med henni nokkra hríd, og lofad henni eginordi, en lét hana sídan eina, hvad drottníngu gramdist svo mjøg, ad hún fyrirfór sjálfri sér í eldi. B. Gr.

[3]) Þettad bendir til þess, er Eneas støkk úr brennunni vid Tróju, og hafdi fødur sinn á baki. B. Gr.

[4]) Arma virumque cano —

81.
Sá eg fjóra svani [1]
fyri silfurvagni,
skein af kerru
skridmikilli,
hausa þeir keiktu
hríngsvírada,
og lopts árum
lustu til flugar.

82.
(Blaunkudu hjól-randir
brunnu axlar,
svo voru skrautfarir
skálds frá Tebe).
Peysti Pindarus
þar hinn antríki,
guddóms fullur
þess hañ gáfad hafdi.

83.
Snart sá med hendi
hörpu lauslega,
og snúdugt hreifdi mjög
snjöllum streingjum.
Grafnir voru á súlu
Grikkja leikar;
voru Zevs og Neptúnn
hjá vedhlaups-snerrum.

84.
Héngu menn úngir
úr hlaupandi vegnum,
þóttu kvikir jórar
þjóta á steini.

---

[1]) Pindarus er hér látinn sitja í vagni, og hefir þad tillit til hesta vedhlaupanna, er tídkudust í leikum á Grikklandi. Svanirnir egu ad merkja skáldskap, hefja þeir sig upp, og á þad ad jarteina háfan og lífmikinn kvedskap Pindars. Gudinn Neptúnn átti ad ráda fyrir þeim Istmisku, og Júppiter (eda Zevs) fyrir hinum Olympisku leikum. Pope.

Hótudust kempur
í hegdun fráleitri,
mest var þar ordu-
lauss
mikilleika.

85.
Hér stilti Horatíus
hinn farsæli
Asonska lýru
í liprum tónum.
Lægdi hann Pindars bál,
og blandadi saman
anda mjúkum Sapphús [1]
vid Alceus manngremi.

86.
Skreyttu fægdan
stepul
skurdverk hafin;
munu þau leingur
vara,
en málmar hardastir.

Brostu ástargydjur
vid Bakkus-helgi,
eygdi Júlíuss
stjernu
og Agústuss mikla.

87.
Héngu svífandi
um'høfud skáldi
turtildúfur þær,
er teikna mundu:
ad hann í uppvexti
orpid høfdu
Myrtusvidar laufi
og lártrés greinum.

88.
Enn sat þar hinn
stóri
Stagíríti [2];
brunnu stedvar hans
af blindanda ljósi
Djúpþenkjanda høfud
keýndi dýrahríngur,
sparn kvikindi margt
spekings fótstalla.

---

[1]) Þetta útlistar mismun þess skáldskapar-anda er finst í Hóratíuss kvædum. Pope.
[2]) Aristoteles. Stagíriti var hann kall-

89.
Gjørdu augu hans
végnumsjáandi
efri veraldir
um ad litast,
og gjørvallt
graut ad skoda
ædi allsherjar
eda náttúru.

90.
Strjáludust glíkir
geisla vendir
um hann Tullíus
ódaudlega.
Var og rómverskum
rædu-stólum [1]
komid þétt saman
á Konsúls tróni.

91.
Sveipti hann med
annari
ad sér hendi
sídum heldur
og hrýnjandi mettli,
tekin var sú hegdan,
er hann telur flutti,
annar var med hæ-
versku
armur þaninn.

92.
Hélt ad baki honum
borgara kórónu

---

adur, því hann var fæddur í borginni Stagira í þeim hluta Grikklands, er Macedonía heitir. B. Gr.

[1]) I textanum stendur, ad þad hafi verid rostra, er í eginlegri merkíngu þýdir snjáld eda trjónu Eptir sjó-orustuna vid Antium gjørdu Rómverjar sína rædu-stóla annadhvort af, edur í líkíng eptir þeim skipa-trjónum, er þeir høfdu þar yfirunnid, og kølludust því stólarnir Rostra sídan. B. Gr.

hjálpvættur Róma
hugþekkasta,
og sýndi þannig
að Ciceró væri
föðurlands
faðir besti.

93.

Hríngudust upp saman
þessir háfu steplar,
og á þeim
ofan hvíldi
glæsilegur mjög
að gjörð allri
himin kríngl óttur,
er til himna steig.

94.

Nauðuglega kunnu
ná hans toppi
augu mín
upplítandi,
svo var þakhvelfíng
þanin harla,
og hátt komið
hennar mæni.

95.

Undir miðjum honum
í mikilleik æfa
glæsilegur orðróms
trón
af gimsteinum brann;
tjá þar augum bót
tindrandi smaragðar,
loga fagurrauðir
rúbínsteinar.

96.

Hrísluðu fjörgir
himinbláum
glærir saffírar
geisla vendum,
og tópas-hallar
tærir kasta
fagurgullnum
frá sér ljósum.

97.

Bragar fótstalli
stafaður lömpum,
þeir er ýmissum
urpu fágum,
og trón þessi
tíguglegastur
ljóma þótti allur
einu báli.

98.
Hreytti lángt til baka
hvelfíng trónræfurs
marglitum glempum,
er mynda þóttu
fagurstafadastan
fridarboga,
slær um dýran hríng
slikju fjelpeutri.

99.
Svo þótti fyrst
þessi guddómur
wrid lágvaxinn,
ad álnar né mundi;
en því leingur
er eg hann augum fór,
hækkadi reikur meir,
uns í ræfur tók.

100.
Vóx med þeim gud-
dóm
ad vermum sporum
salar bygging oll
og sundurgerdir,
þokadi súlum upp,
þreyttu ræfur und ský,
heldur glennast há-
bogar
og hvolfgaung leing-
jast.

101.
Svo var Gud þessi
gerr ad ollu,
sem aldnir Bardar
oss um frágu:
mundu vængir lypta
mannords ermum,
voru fótleggir
vængjum huldir.

102.
Þúsund hafdi hann
túngua
talvísastra,
og þúsund
opinna sjóna;
þúsund frá eg eyrna,
þeirra er allt ofhlusta,
voru þeim guddóm
gefin hid sama.

103.
Fyri nedan hann
í fagri ordu

þjónustumeyjar
þyrpast níu.
Voru það söngva-
gyðjur
fræðadaðastar,
höfðu þær alls gát
í helgum dómi.

104.

Festa þær augu sín
á orðrómi
sínni hvert,
er þær söngva
þreyta;
hefja mjúkar raddir
fyri mannorð eitt-
saman
og streingjum eins
stilla til sláttar.

105.

Höfust árla mjög
þeir himnesku söng-
var
við efsta burð
aldins tíma,
og ásamt honum
æ svo vara,
meðan dagar ljóma
fyri manna sonum.

106.

Meðan eg þau undur
lét augum farin,
söng við lúður hátt,
salur gjörr bifðist,
og við hvell þann
úr hálfum öllum
þjóðir komu allar;
þraung varð í höllu.

107.

Ærinn var þar klíður
ýmissra túngna,
og flokkar margir
í fráleitum klæðum,
þéttir sem bí,
er á blóm-knoppum
erfiði sumarlegt
endurnýja.

108.

Þegar óstaðfest
þeirra sýgur
alvængjuð ferð
ilmandi daggir,
og í þeim léttu
loptstraumum

freistar í ár daga
flugar og sveima.
109.
Mekkvadar sléttur
og marbakka
skygda skóglimum
skjótt ofsljúga,
edur fallast láta
til feingjar blómsafa;
þrasir ferd mikinu
of þvera vellu.
110.
Svo var þraung ærin
af þúsund mergdum,
er um heiløg ve
ordróms lutu,
af øllum stéttum
audgir og snaudir,
víglegar kempur
og vitríngar,
æska ossnotur
og ellin málga.
111.
Ólíkt þeir bádu,
þó um eitt þeir
beiddu;
þvíad vondir og gódir
vilja sér ord geta.
Sumir ófallin
afsvør bidu;
sumir feingu virdíng
og vegs kórónu
112.
Allt eins verdleikum
fékst ólík gipta;
svo rædur mannords
systir augnstola,
allhvikul gæfa,
er vid útbýtíngar
kedjum og kórónum
kastar ad óskilum.
113.
Fyri dóm helgan
fyrstir komu
gjørlærdra øld,
guddóm bádu:
uppfrædíng vér
þreyttum
og ánægju manna,
bleikir af bókidnum,
blindir af náttvøkum.
114.
Fáir oss þøkkudu,
færri launudu;

hér birtumst því
fyri háum tróni;
gef þá laun makleg
geðspeki og lærdómi,
alls hér orðróms má
eins niðri vænta!

115.
Heyrði það guddóm-
ur,
og hét á saungmeyjar,
og bað þær
blása skyldu,
hinum gullfánu
gjallarhornum
orðs og ágætis
ævarandi.

116.
Hvirfludu vindar
þeim
hvell í millum
hlýra jarðballar
og með heimskautum,
þó ei svo fljótt
sem þruma ríði
fram úr skerþrúngn-
um
skýja kólgum.

117.
Hægur var sá hreim-
ur,
en ei hár í fyrstu,
óx með hverju stilt
augnabliki,
og víðáttu
veraldar fylti;
og að háfu steig
himinræfri.

118.
Við lúðurþyt hver-
jan
lagði í fjarska
balsamlegan ilm
frá breiðum sölum,
varð ángan hans
æ því meira
er hann loptstraum-
um
leingra fylgdi.

119.
Aldrei gefa rósar
opnuð laufkersi
megnuðu daun
svo munaðsfullan;
né sætkryddaðir

sognir ad vitum
ánganreifir
Araba vindar.
120.
Því næst framkrupu
fyri dóm helgan
gefigur flokkur
gódra og réttvitra:
þó ad manndygd
í þessu lífi
opt megi þola
øfundgjarnan róg,
og ósjaldan gódir
med illum teljist;
121.
Séf þó eingu ad síd-
ur,
Guddómur enn rétt-
vísi!
ad verdleikur
voríljós komi;
og legg á sérhverja
ad sannri veru
nákvæmast verd
vorra gjerda!
122.
Eigi skulu verk ydar
(kvad þad ordrómur)
metast einúngis
ad maklegleikum,
heldur yfir lángt
ydra verdskuldan
hljódbær og lofud
í heimi verda.
123.
Sterkari lúdra-
hljómur
skal í stans reka
heim gjervallan
vidkvedanda,
og hvellrómir
skulu ydrum dýrdum
vorra básúna
biljir þjóta.
124.
Ad þessum búnum,
kom annar hópur
med líkri bæn,
og laut heldur mik-
inn;
vidlíka jafn gángur
vel eyddra daga
eins þeim horfa þótti
til hróss verdlauna.

125.
Þutu nú að skyndíng
hin' skélfilegu
níðs haturlegs
horn, og lastmæla;
braust sú þruma fram
um breiðar hallir,
og sér megin gat
við endursløgum.

126.
Frek, sem lopt rysi
fallstykkja hvellir,
þant válig fregn
um þjóðir allar;
hrinu illkvittir
í hlustum øllum,
uru rógdylgjur
á øllum túngum.

127.
Af rydgudum munn-
um
rauðsvartra lúðra
brustu blálogar
brennusteina;
og síkmiklir
fram sér veltu
mjeg í reykstrokum
mekkvaf hnettir.

128.
Eiturfullir dampar
í ljátt hverri
purpuralegan himin
pentum settu;
og hvervetna,
er þeir ysirlíða,
visna hlutir allir
og viðurgiúpna.

129.
Því nærst fram komu
fólk óeirin,
gulli krýnd
og grá fyri járnum;
brunnu þeim ásjánir
af ofstopa miklum
og óbilgjarnri
ofurhyggju.

130.
Fyri þig, þeir kváðu,
vær klofið hefum
lífstraum í harðviðr-
um
með harki og orust-
um,

fylltum vegna þín
fólk eldi og blódi,
rak oss nú ad tróni
med þeim raudu
straumum.

131.

Ódædi slík,
er vér olla fordum,
sken eru eptir þinni
skipan og innblæstri;
hver sá dreingskapur,
er drýgja þóttum,
einúngis er framinn
ydar vegna.

132.

Vistur kvad þad ord-
rómur,
og brúnhvolfi:
grafin skulu verk ydar
í gleymsku myrkastri,
ordgírug fól!
med ámátkum tírenn-
um
gánga skulud ér undir
og í gleymsku bólma.

133.

Lesti ryd og gróm
ydar líkansúlur!
um aldir nøfn ydar
ókénd verdi!
Ský þeim sópudu
skjótt frá augum mér,
og sjóndyrd hver
sökk í djúpa nátt.

134.

Þá kom múgur fram,
er eg minstan sá;
var þeim hóf á klæd-
um
og í hegdan sidlæti.
Mikli Gud! sögdu
þeir,
er mannfólk lúta!
eigi lof skilid
né ordstír kjósum.

135.

Eins vér þess bidjum,
ad á eydimerkum,
þokkalausir
af þjód hverri,
ókéndir svo mættum
undirlída,
sem vér líttsénir
lifad höfum.

136.
Bæn vor öll er sú,
að þú byrgja viljir
sjálflaunuð verk
fyrir sonum manna.
Látoss æ þannfagnað
í leyndum hafa:
að vér manndygð eina
fyri manndygð rækjum.

137.
Er þeim svo varið,
er orðróm ei hirða?
Hverjir skulu nefn vor-
hylla með reykelsum?
Vitið ér, mannkyn!
að mestur er vor sómi,
góðra dáðum lýsa
er þeir duldar vildu.

138.
Upp þér, saung-meyjar!
og uppi látið
sætrómaðasta
saungva tóna.
Megu eigi slíkir
menn í degi
undir gleymsku sofa
né aldur-tila.

139.
Tjáði það orðrómur,
og titrandi hreimar
glæra loptstrauma
gegnum flutu,
og hægvindar
hefja knáttu
sigurhrósandi
saungva læti.

140.
Svo var hljómur
mjúkur,
þó að hár væri,
og svo hreinn
þó að hvellur væri:
að ofan frá himnum
einglaskarar,
fagran klið að heyra,
flokkum lutu.

141.
Ambrosíuleg
til endimarka
fram sér ilman helti
fjarlægustu,

sú er lýða kindum
lífgun jók,
og hærstan unað
himnabúum.

142.

Því nærst biðjandi
bar að tróni
ássjá'egan flokk
úngra manna;
skulfu þeim fjaður-
vendir
yfir skarar-fjöllum,
glitruðu gulldálkar
á góðklæðum.

143.

Látið yðrum híngað
augum snúið,
sjáið hér, þeir mæltu,
menn þá og skoða,
er sællífi
og sundurgerðum
leingi vorum háðir
og lausúngum.

144.

Dveljum vér jafnan
að drykkju-borðum,
teitigildum eins
og á taflstofum;
munuð er vor önn
mest um nætur,
en síðsnilli
svinn um daga.

145.

Opt verður oss geing-
ið
til eðlíngs sala;
skemtan þykir oss
að skyldu-fundum
við meyjar að þínga,
og þó oss eingin
hirðti,
allar vér þykkjumst
unnið hafa.

146.

Ræðum vér um ó-
farir
ríkiskvenna,
er vér aldreigi
áður kendum;
þó er oss hugleikið,
að heimur vildi,
það er segjum, allt
fyri satt hafa.

147.
Gledi megu, adrir
og gaman fá,
ord liggur oss
eitt á sinnum;
það er oss í kæti
kynni skorta,
beidum vær í ordróm
bætast megi.

148.
Heyrdi það ordstír,
og hornum vaktir
lustu hljómþytir
lopt ígégnum;
og svo þrátt
er hann þannig blæs,
meyjar sómi deyr,
edur manns konu.

149.
Hrundu sér til vegar
ad helgum dómi
égrynni þjódar,
er alteins bádu;
sanst þeim mjög til
ennar fegru gæfu,
er ad vonlausu
valdist þeim fyrrt.

150.
Hvad! sagdi ordstír,
þér ler hvergi vissud
þjódar ged ad fá
né þokka-sældir;
erud ér jafnan
ydar egin þrælar,
einu saman þreyttir
af idjuleysi.

151.
Þér er æsi slítid
øllum døgum,
verdleiks vanir
fyri verk framin,
óskilinn viljid ér
ordróm hafa,
sem dýru kaupa verdi
dreingir bestu.

152.
Verdskuldud smán,
er þér vísa egid,
sem ad óskilinn
ordróm sikist,
skal ydur ad slimtan
fólks á medal
og athlægi
alheims gjera.

153.
Drundu skjótlega
dymmraddaðastir
lúðrar litsvartir
í laungum sølum;
heyrdi háskell
og hlátra mikla,
flugu sáryrdi
of sjót alla.

154.
Klidur gjørdist ærinn
af keskilátum;
hrinu spottyrdi,
hróp og lastmæli;
flugu hádblýstur
fram og aptur
um þjódar flokk
þraungskipadastan.

155.
Sá eg ad lyktum
sídasta fara,
þá er hældust um
ad hafa mikilli
ógæfu ollad
og undirþreyngt
land sitt og lýd
laungum þjánum;

156.
Edur og feingid
óréttlega
konúngstóla,
og komizt ad vøld-
um;
edur illbælt
æru sinni
of drottinsvik
og dýrvina.

157.
Þá er eid og
trygd
aldrei kunnu
tírarlausir
tvinna saman;
heldur óljósri
landráda-konst
til rángs vegar
réttu halla;
liggja klækir þeim
í léttu rúmi,
þrálegum getnir
þánka-brotum

158.
Sveitir miklar
sá eg þessa

raufara [1] lids
renna ad tróni;
bádu lygd sín
og læví̇si
ódaudleg
öllum kyntist.

159.

Skræktu lúdrar,
skutu hríslum
bálstrauma lángra,
brustu gneistar.
Pótti sem
þeima blossa
heimar allir
hrynja mundu.

160.

Stódu menn bleikir
og ballskelfdir
af hvellskotum
hljóms deysanda.
Fór öll sképna
felmtrud saman,
hreimþytar
hrolli beld.

161.

En er eg þessi
undur hafdi
heyrt og séd,
hulinn kraptur
umskipti brádla
því er ádur var,
frá tróni mér
tignum svipti.

162.

Hóf sig annad
fyrir augum mér
musteri fagurt,
en þad mangi vissi,
hvert þad á
hvíldi jordu
edur í launsmuglu
lopti svam.

163.

Snérist ódfluga
salur í hrínga;
kvádu múrar æ
klid hávaran.
Mundu stórdyra

[1]) s. s. reysara, ránsmanna.

mergdir tals,
sem eika lauf,
edur sandur á fjørum;
standa æ opnar
ellum vindum.

164.

Sem bál fer
ad sinni veru
hátt ad himins
hveltu ræfri;
og þúngir kná
kroppar svífa
ad jardhnattar
høfga púnkti;
og vatnsfalla
fljóta straumar
undanhallt
endur í sæ;
og segulsteins
sveifla kraptar
nálum ad
nordurarxli.

165.

Þannig hesja sig
hverskyns raddir,
þærs á himni, jørd
og í høfum ske,
ordnar af hljódi
edur í eyra sagdar,
og sem á
adalstødvar
samanfljóta
til sals hinnig,
þar eingi finnst
þøgn, ró né hlé.

166.

Sem á sléttvell
sæs fagurglóa
steinfall hríng
stekkvir einum:
af skell þeim
skjálfanda blik
þá hríng annan
og enn þridja slær,
hver svo vídar út
verdur ad ødrum
og hríngbylgjur
bylgjum dreifdar
vegar hvers
velta ad strendum.

167.

Þannig rødd hver
og hljód ordin
ljósta fyrst

lopt hið næsta,
um sig hríng
annan myuda,
hveim strax fyr
stokk enn þriði;
bruna svo hljóð
bylgjað loptgegnum,
velta sér of alla
veru stjótandi.

168.

Margt eg þá nam
nýrra lunda
of ástir, sirrur,
frið, orustur,
líðanir, heilsu,
líf og dauða,
skaða, gagn,
skort og gnægtir,
af lagar stormum
og landferðum,
sússlegum táknum
sjónum í lopti,
eldi, plágum,
illum stjernum
þeim er hafa
hala glóandi,
frá gæfu hvarfi
og glapvísum
innanríkis
umbiltíngum,
vildarlýðs
volegu falli,
ráðabruggi
ríkismanna,
illa vorðum
allsherjar sjám,
og álagna
eyri nýjum.
Þær voru fregnir
þeigi lognar alls,
né með sannleik
sagðar fullum.

169.

Oteljandi
efra, nedra,
innan sals
og utan veggja
sjold eg sá
fara, koma,
hversa, nálgast
horfna ridli;
sjótir af ótta
samanþyrptar
og forynjur

fárra tíma,
stjarna-þýdendur
þeirs ókomin
forlög manna
fyrisegja;
nýbreytni-smidir,
smyrsla-glópar,
laga-snápar,
lygnir prestar,
hleypi-gapar
hugar ómynda;
og hundmargir
hreifdu lygum,
er út sjálfir
úngad høfdu,
edur skrefsøgum
annara landa;
hátt frá eg þeir
af hljódi mæltu,
edur affídis
sér ad máli,
og æfurt
óþol brann
af ásjánum
allra þeirra.

170.

Fregnir fljúgandi
flyktust saman,
ádur á braut
bærust þadan;
og markleysa
eingin heyrdist,
er jafnskjótt ei
aptur segdist,
og þá segjendur
sídan juku
allir nýju
einu hverju,
og heyrenda
hver vidbætti
ódar aptur
ósannindum,
er hvert
eyra lusku
tímgud á
túngu hverri.

171.

Flugu því
fregnir nýjar
austur, vestur,
alla vega,
nordur og sudur
sídan fóru

munn frá munni
mjög um auknar.
172.
Þannig af neista,
þeim er í fyrstu
að hending
hlýtur kveikju,
bál með út-
brotum nýja
færist í
feingna krapta,
uns snákbognar
bragandi kná
loga hríslur
lypta skýjum:
mega þá turnar
og musteri
í eld-hafs
ólgu sekkva.
173.
En er árborin
ósannindi
feingu viðgáng,
og fallin voru
mannlegrar túngu
mærð að hefja:
þreyjulaust
þeim af hólum
hvirflar hundmerg-
um
heims til þjóða.
174.
Situr Orðrómur
í sess háfum
og bendir þeim
að búnu skeiði,
hann þeim tíð
taka setur
og megin
markar fyr.
175.
Sum lætur hann
síðla vara,
ennur óðfluga
endur of deyja,
eður, viðlík
vexti mána,
aukast stundum
og aptur mínka.
176.
Þúsund vættir,
vængjum horfnar,
flugu út
alla vega,

og básúnu
bornar hljómi
gegnum lopt
lángt sér dreifdu.

177.

Opt var ad sjá
satt og lygi
um útgángs
ginur keppa,
og ósýnu
sigur leingi,
hvert um þraungva
holu fyrr
trodizt feingi,
alls farid hefdu
helst til þétt
hverutveggja.

178.

Loks þau lag
lögdu saman,
og út flugu
ásamt bædi;
því frá eg sídan
satt og lygi
glöggt ævagi [x]
greinast kunna;
félag þeirra
fyrnist aldreigi,
bera mangi fyr,
nema bædi samt.

179.

Þá eg stórri
stód svo medur
laungun ad
líta og heyra,
þótti sem
þannig kæmi
einn, er hljótt
í eyra segdi:

180.

Hve þig hefir,
halur enn úngi,
dramb afleidis
draga kunnad,
og hátt svo
hreikja látid?
ertu ordróms
einn á leitum?

181.

Era dælt (sagdag)

[x]) þ. e. aldrei.

í dul ad færa,
ad vonlausir
vorum eigi;
alls til vidkvæm
tírar-girnd
er lagin mest
úngum skáldum.

182.

En fár gledst
fíra barna
af heudíngar
heppni þeirri,
svo torsótt
til ad ná,
sem fljótlega
feingin missist.

183.

Hve léttvægt
er líf hid annad
eptir ordid
í aldar minnum;
og snúdur sá,
er snillíngum
frá dánar-dægri
deildur er?

184.

Fyrir ordróm
fridar, heilsu
og lífs vanir
vera megu;
er lén þetta
laust í hendi,
enda afrakstur
eigi smár.

185.

Fors megu þeir
fyrimanna
ardlaust
inni sekkja,
aumir þá
ofundandi,
hundvesælir,
ef hræsna þeim.

186.

En illskældur
og orverpa
hugar vits
vesælíngar
eru féndur þeim,
og ódsnillíngar
einasta vinir
ofundsjúkir.

187.

Ei metum vér

orðróm lítils,
né náðar hans
nokkuð beiðumst,
kemur hann æ
að óverum,
nálgist hann
nokkru sinni.

188.

En ef eg
orðróm skyldi
svo dýru við
verði kaupa:
egi heimsku
hrós að fá,
eður løstum
lofs að unna:

189.

Skuli mín
mærð þeim fúla
herradóm
hræsna fyr,
og æ þángað
eptirfylgja,
er lukkan mig
leiða vill:

190.

Skyldi nafn mitt
skráð einúngis
fundið á annars
fellum hróðri:
þá kenn mér,
kraptur æðsti!
lárber-krans
leiðan hata;
þeirri guðlausu
girnd mannorða
burtu rým
úr brjósti mér.
Olestuðum
unn mér lifa,
og óleysðum
líða brott.
O, gef þú
góðan mér,
eður alls
eingan hróður!

---

## Teókríts 19. kvædi*).

### Hunángs þvinninn.

1. Af randa-flugu eggja kerfi
ætladi fordum hunángs skerfi
þjófhyndur kraka Kúpídó;
þá vard hún bysst, og broddi tóma
á bádum hendum fíngurgóma
sundurkrafsadi hans og hjó.

2. Hann eingir sig, því herd var raunin,
hoppar, trampar og blæs í kaunin
og sýna módur sinni fer:
ad þessi litli flugu-fjári
fái ollad svo stóru sári,
kvartar hann mest og kveinkar sér.

3. Þá hló hún mamma hátt vid skríkjur:
hvad? ertu ei sjálfur flugu líkur,
dreingspóki, sagdi hún, dálítill?
Þó getur samt þín krakka karta
komid til vegs, ad mergu hjarta
sár verda feingin svell og ill.

*) Lærd. lista Felags rita 9. B.

# Teókríts 20. kvædi *).

## Nauta hirdirinn.

1. Af Evníku spott eg ádan hlaut,
þá hana mjúkt eg hugdi kyssa,
hún skútar mig, sú vonda byssa:
snáfadu, sagdi hún, brátt á braut!
aumíngja búri, þeinkir þú
þér á minn litla munn ad skella?
hent er mér ekki hvepsni sú,
heldur nett uppá módinn smella.

2. Þú skyldir ekki, það eg sver,
til minna vara, karlinn kæri,
þó kominn í fasta svefn eg væri;
fý! hvad ljótur þú allur er!
æ, hvad rustaleg ord og glens!
en hversu gott þú rædu flytur!
en hversu sætt ad er þitt flens!
en hvad nett litla skeggid situr!

3. Æ, hvad hárid er hvítt og þykt!
varirnar sem á sjúkum manni!
svart er hverttveggja, hönd og skjanni,
þú býdur einga þokka lykt.
Burt, burt, ad ei mig atir þú!
Á sitt skaut þrísvar sídan skirpti;

*) Lærd. lista Felags rita 9. B.

frá hæli mig til hnakka nú
horneygd muskrandi fyri sér virti.

4. Af snoppu sinni snúduglig
hún skellihló med skældum munni,
skósadi reigd, sem verst hún kunni;
þá tók nú fyrst ad fara um mig.
Eg vard í framan, eins og blód
eda rósir af doggva falli;
seinast þar eptir einn eg stód:
enn þá er heipt í brjósti á kalli.

5. Ad skerjan þessi skyldi mér
níd, spott og snuprur nógar veita,
nafni hverju sem verstar heita,
svo frídur madur sem eg er.
Segid mér, hirdar, er ei eg
ofur fallegur, satt ad skrafa?
hvad ætti gud á annan veg
aflagad mig svo fljótt ad hafa?

6. Því fyrrum eitthvert þokka bragd
þótti mig prýda flestum lofna [1];
eins og vínkvistir eikar stofna,
og skeggs minn prúda skreyttu lagd.
Fagurgult hár, sem flugna bís,
flegradi mér í kríngum hlustir;

---

[1]) þ. e. meyja.

of[1] dökkum brúnum uppi rís
ennið, sem mjallahvítar bustir.

7. Ei hafði Pallas[2] augu slík:
afbáru varir mjólkurhlaupi
og því hreinasta hunángstaupi:
að raddar sætu eigi vík.
En hvað min versin eru sæt!
eg kann við smalapíput dilla;
réttar og bognar líkt eg læt,
sem leggi reyrstánga, hljóðin fylla.

8. Yngismeyjarnar upp til fjalls
allar dáfríðan pilt mig kalla,
elsku þær til mín allar halla;
en þar eg kem til kúa stalls,
vilja ei borgar víf mig teit:
vippar þeim hjá mér fram í skyndi;
þau vita sízt, að baulu beit
var Bakkuss prúða mesta yndi.

9. Þau vita ei, að Venus sjálf
varð svo gjorn eptir smalamenni,
að í fjallbygðum aldrei henni
leiðrist að vakta kú né kálf:
á Ida-skógum elska vann
Adónis fyrr í besta geingi,

[1]) yfir. [2]) Minerva.

á Ída-skógum einnig hann
andadan grét, og syrgdi lengi.

10. Um Endymíon eg eigi fæst;
var sá ei smalasveins ígildi?
samt þykir mér, sem Lúna vildi
eira þeim pilti einna næst.
Hún steyptist nidur himnum frá
til hinna Latmisku fjalla tinda [1],
hvar gripa fjöldi lék og lá,
og lét sig þar hirdis armi binda.

11. Hrea [2], þú grætur hirdirinn [3];
herra Júppíter, gekkstu eigi
ráfandi fjalla verstu vegi
fyrir dáfagra dreinginn þinn [4],
er fór ad nautum fjalls í brún?
Forsmár Evníka af hirdis tetri
sæta munud [5], ad sýnist hún
Sýbelu [6], Lúnu og Venus betri.

12. Og, kæra Venus, ord mín heyr:
ad Adónis þér í borgum halla
edur um stödvar upp til fjalla
hédan af aldrei máttu meir;
þó ad hann skreyti skopun fríd,

[1] í Karíu. [2] módir Júppíters. [3] Attis.
[4] Ganymedes. [5] munud, kvk. ást,
yndi. [6] hér s. s. Hreu.

skilja kautu, það illa lætur
fyrir staðanna losna[1] lýð;
ligg þú einsömul hverjar nætur.

## Teókríts 24. kvæði.

Herkúles úngi.

Hafði Herkúles
enn harðgeði
ári minnur
mánuði tvo;
var Ifiklus
ýngri nóttu:
arfar um-bornir
Amfitrýóni.

Tók hann grip
af Terelási
Amfitrýóu
yfirstignum;
lagði hönd
á höfuð beggja
móðir hógvær,
mælandi svo:

Þá er Alkmena
hvoði báðum,
móðir þeirra,
og mjólk saddi,
og á skjeld
skrautlegastan,
byrðan málmi,
báða lagði.

Sofið sætan,
synir mínir,
og af sætum
endurvaknið!
sofið, hjertu mín,
hlýrar báðir!
ellu heilli,
arfar mínir!

[1]) sjá 6. vísu athgr. 1.

Sofið sælir
svarta grímu!
mætið sælir
morgunroða!
Ruggaði hún skildi
reginmiklum,
en svefnhøfgi
seig á báða.

Bjørn*) til vesturs
bar um nátt miðja
að Orions*)
axlabreiða.
Lét hiu lævísa
læðast þannig
drottníng Júnó
dreka tvo.

Skrímsl skélfileg
skutu bugðum
myrkurblám,
bragandi fram
til þreskjaldar,
þars að salar
hnígur hvelðum
hurð gáttstøfum.

Bauð hún við heitan
hverjum tveggja,
að þeir Herkúles
úngan svelgði;
en þeir á jørð
áfram veltir,
blóðþyrstum kviði
biltu í moldu.

Leiftruðu af augum
logar vondir
hvatskeytlegum
að hvívetna,
og skaðnæmum
undan spjóu
eiturgusum
alla vegu.

Vøknuðu báðir
burar Alkmenu
(svo hefðu goðin
gætur alls),
en um svefna
sal gjørvallan
ljósi laust
leiðra snáka.

*) Stjørnumerki.

Hljóðaði hátt,
er of holum skildi
Ifiklus úngi
illvofur sá,
tennum varðar
voleguſtum:
sparn við fótum,
flýja hugði,
og góðvoðir
í gegnum steig.
En? Herkúles
øndverður mót
høndum báðum
hvatlegur atti,
og hvara tveggja
tírar laginn
dreka kind
í dróma hnepti.
Báðum að hálsi
hendur lætti:
Þar kveða eiturs
illar vonir
snákum válegum,
Þats viðurhataſt
einnig uppregin[1]
frá øndverðu.
En um síðborinn
og brjóſtmylkjandi
Herkúles,
Þanns hvergi grátinn
né klekkur sat
í knjám fóſtru,
slaungðu þeir bugðum;
en er slæfaſt tók
hrygglíða kraptur,
hrundu bugður;
fýſti þá að leyſaſt
úr læðíngi.[2]
Heyrði Alkmena
hróp í sølum,
vøknuð fyrſt,
víſis inna:
rís þú, Amfitrýón,
því mig ræðſla sker:
rís þú laus
reyrðra skúa.

---

[1]) upphimins goð. Herkúless.

[2]) fjøtri, þ. e. úr greipum

Heyrir þú eigi
hróp ens ýngra
burar okkar
í breidu ranni?
sér þú eigi,
hve sala vorra
vid svartnætti
veggir ljóma.

Enn er dags brún
eingin á lopti;
mun um nýtt nokkud
nú ad vœla,
ástkjærr maki,
innan halla.
Hún þád sagdi,
en hann úr rekkju
kom sér nidur,
konu hlýddi;
hljóp haggjervum
hjorvi ad ná,
þeims of sedrusþ hékk
sæng ævagi.[1]
Fékk á[2] hánka
hausa-molvis[3],

fyrir skemmu
fléttudum saman;
ennur mund
upp hóf slídrir
úr Lótus-vidi,
verk allmikid.
En rúmbygdir
rekkju karmar
fylltust aptur
frekri dymmu.
Kallar hann sveina
svefni dæsta,
og þad orda
alls fyrst um kvad:
Verid af arni
elda hinnig,
sveinar mínir,
mjøg í skyndi,
og rammlegar
rekid frá
lokur hardsnúnir
hurdum ollum.
Rísid sveinar,
úr rekkjum ydrum,

[1]) Musteri mann. v. 178. [2]) þ. e. tók í.
[3]) sverdsins.

þolingedir með kveiktum lemp-
þrek að vinna. um
Svo hann kallaði,
en sveinar af stundu komu þannig.

## Anakreons 12. kvæði

Svalan.

Hvornig skal eg þér hegna,
þú hjali gjarna svala?
skal eg þér vængi skella?
skal eg, sem Tereus forðum,
slíta þér nú úr nefi
þá nettu sladurtúngu?
Árla þín raust mig rændi,
rofinn þeim besta draumi
(stendur mér stúr um hjarta),
stúlkunni minni fegru.

## Anakreons 34. kvæði [1]).

Flý þú mig ekki, fagra mey,
þó mér af hærum herðar viður
hrynji fannhvítir lokkar niður;
fyrirlít mína elsku ei,

[1]) Lærð. lista Fél. rita 9. B.

medan þér æsku endist blóm:
því ofurvel á milli rósa
mjallhvítar sér, að mínum dóm,
í mai-krensum liljur; hrósa.

## Hóratii od. 3. B. 9. kvæði [1]).

Hóratius og Lydía.

1.

Hór. Fyrrum medan eg þekktist þér,
og ekki annar neinn
ástsælli ýngissveinn
lagði þér hönd um ljósan háls,
lífs míns blómgaðra bar [2],
en buðlúngs Persa, var.

2.

Lyd. Meðan þér annur meir ei féll,
og lut ei lægra par
Lydía Klóu bar,

[1]) Þessu fyrsta versi hefir annar snúið, og finst það prentað einstakt í Jóns Olafssonar verðlauna riti: om Nordens gamle Digtekonst. Lærd. lista Fél. rit 9. B. [2]) Fræknappur míns lífs var blómlegri, þ. e. eg var sælli (en Persa konúngur).

eg var mikil í munni þá,
orðs hafin æðra dóm
en Ilia sjálf í Róm.

3.

Hór. Nú hefir Klóa hjartað mitt;
sú veit að syngja dátt,
sú kennir herpuslátt:
hennar vegna eg léti líf,
að hún, mín önnur sál,
ei bergði dauðans skál.

4.

Lyd. Ástar mig jöfnum eldi fór
Túrínskur kappa kon
Kalais Ornitsson:
tvisvar eg fegin léti líf,
ef þessum ýngispilt
örlögin feingi stilt.

5.

Hór. Hvað, ef hin forna hvyrfi ást
aptur, og saupasátt
samteingdi okkur dátt:
ef Klóa firrist fagurhærð,
og luktar ljósri fyr
við Lydíu gína dyr?

6.

Lyd. Þó hann sé fegri en sólin sjálf,
og þú lausari í lund

léttum korki vid sund,
og ofstopameiri ólgusæ,
laungun og lyst mín er
ad lifa' og deya med þér.

## Upphaf

af Horatii ars poëtica.

1. Manns ef höfdi málara pensill
merar teingdan svíra feingi,
breyttu fidri sídan setti,
og safnad lima tæki ójafnan:
svo hid nedra í svörtu hýdi
sæi fisk, en ofar lagist
fögur kona: kynnud þér, vinir,
kessja skell, ad sýndu öllu?

2. Þér, Písónar, þad megid vona,
þessari brík ad fullu líkist
bók, er eins og í blund þeim sjúka
bregdur hjómi fyrir tómu:
hverki svo ad höfud né fótur
hina myndan semu syndi.
Alls ad freista, makt ad mestu
málarar greppum jafna hreppa.

Af Horatii Sermones, Lib. 1. Sat. 4. v. 81—85.

Hann, er baknagar bestan vin,
og ber ei undan hverju lasti,
med hlátri vill flenna hvers manns gin,
og hafa kjaptinn á tvist og basti:
tilhæfislaust er tala kann,
og trúnadar málum úr sér bilti —
sá er innvida svartur mann,
sjádu, Merlandi, vid-þeim pilti.

---

## Upphaf

af kvædi Kládíans um rán Prósérpínu.

Djarfan brag
býdur sinni
stilt vel
stæra skulum,
frá undirheims
hestum raufara[1]:
lopt hel-kerrum
lostin efri:
og drottníngar
dánarheima[2]
brúdsali
bítu Þrotna.

Víkid, ósnjallír,
medan ód flytjum!
nú er mannvit hrakid

---

[1]) Sjá must mann. 158; undirheims raufari, undirheima gudinn Plúton, sem rændi Prósérpínu. [2]) Þ. e. Prósérpínu.

megnum anda;
og gjörvöllum
guda krapti
oss í barmi
brjóst of þrútnar.

Þykja hof hristast
hrærdum velli,
þök uppljómud
þeyra[1] geislum:
mun það komu teiku
mærdar drottins[2];
heyrast há-drun
frá djúpheimi.

Sýngur bergmál
í Sekrópshöllum[3],
ofrar helgum
Elevsis[4] blysum:

hvína Tripto-
lems[5]
högfgir snákar,
og hreistur-svírum
slaungva ok-mádum;

Hessja skridfánir
fagurraudar,
ódi ferdsnúnir
ormn, bustir;
uppi vedur hinnig
hátt í fjarska
þjódmær Hekate[6],
þrennum myndum.

Hógur Jakkus
einnig framlídur,
krönsum gefugur
kvista víntrjáa,

---

[1]) þyrla, dreifa. [2]) Appollons [3]) Atenu-borg. [4]) borg í Attíku, fræg af helgi-höldum Seresar (korngydju). [5]) kóngsson frá Elevsis, honum gaf Seres kerru, er höggormar geingu fyrir, ók hann á henni um mörg lönd, og kendi mönnum akuryrkju [6]) Gydjan þrímyndada: á himni Lúna (túngl-gydja), á jordu Díana (veidi-gydja), í undirheimum Próserpína (undir-heima-gydja).

í ljóshamm austrænum,
rykktur gullklóum:
stýdur drukkin set
dørr vínslaungdur.

Ó, þér gudir,
hveim óteljandi
orka [1] þjónkauar
í undirheimum:
hverra soltinn
sekkur audæfa
hlýtur þad allt,
er í heimi týnist!

Þér, er Stýgar*) fljót
ser umhverfis,
bládraungum skordad
beggja vegna:
og Flegetons*)
farir snúa
hof rjúkandi
hvirfil-sogum!

Opnid mér helgra
hluta fylsni,
og óljós rek
ydra heima:
hvad Amors blysa
beygdi Plúton?
hverju Prósirpa [2]
hafin ráni
myrkheima veldi
ad mundi gát?

Og hvad landa
hnípin módir [3]
í eptirleit
lagdi fót yfir;
hvadan leg hófust,
og fyri hvítu axi
viku skógplómur
og villi-hnetur.

Þad var ádur,
ad þrúnginn reidi
hels oddviti [4]
herja fýsti
til uppheima,

---

[1]) Veita. [2]) Próserpína. [3]) Seres. [4]) Plúton.
*) Fljót í undirheimum.

þar ed einlífur
og barnlausar
bidi aldir.

Leingur hann ei vildi
vani kvánar
edur munad-lífs
egin-giptra,
né hins sæta
(er ad segum fer)
fødurnafns
fundinn vera.

Geysti vættur ell,
er ad grimmum svelg
felst, í sylkíngar
og flokka stóra:
og móti jefri
upphimins
draga rád saman
dysir heljar.

Og snákhærd
snýr í lopti
Tisífóna[1]
tíla-brendum,
og draugfjeld
dorrum gráa
ad herbúdum
heimti selvum.

Því var nær rádid,
ad rjúfa mundu
hlutum óþjálgum
høfudskepnur
trygdir gjørvar,
og Títans børn[2]
drómlaus og tysjar
dag um sæi.

Endur hefdi nær,
hlekkjum sprúngnum,
Egeon[3], limum
af blódstorknum,
endverdur rísid
vid eldíngum,

[1]) Ein af hefndarnornum, sem høfdu høggorma fyrir hár.
[2]) Títanar, fødurbrædur Júppiters; þeim var steypt nidur í undirheima, og voru þar í dýblissu. [3]) Risi med 100 høndum.

og hundrad hromm-
um
hreist í móti.

En ørlaga nornir
óun slíka
hindrudu, skelfdar
fyrir heims lokum;
hrynja þær létu
ad hilmis fótum
stóli nedar
strída lokka.

Med sviplotníngu
legdu ad knjám hend-
ur
allsrádendu,
þær, er ørløg snúa,
og lángvinnar
vinda kná
ísarn-toga
aldir framla.

Og Lakesis [1]
lúfu dreifd
fann svo fyrst
fylkir ad máli.

---

*Carmina secessum scribentis et otia quærunt.*

Ovidius.

Ef þú vildir yrkja vess,
einn þú skyldir vera,
og starfi krefur þessi þess,
þú hafir litt ad gera.

[1]) Ein af ørlaga dísum.

*Quod si deficiunt vires, audacia tantum*
*laus erit, in magnis et voluisse sat est.*

Propertius.

Lítilmagninn laungum hvar
lofs fyrir dyrfsku nýtur;
þá mikid er um ad véla, var
viljinn eini hlítur. —

---

*Ita mihi in pectore et in corde facit*
*amor incendium,*
*ni lacrumæ os defendant, jam ardeat,*
*credo, caput.*

Plautus.

1. Elskunnar hefir bruna bál
brjóst mitt og hjarta þannig spent,
ad ef ei tára tæmdi skál,
trúi' eg mitt hefud væri brent.

2. Svo hefir ástar funa flug
brent mér til skemda brjóst og hjarta,
bestu líkamans innstu parta,
og úr mér allann dregid dug:,
ad, ef táranna flód ei fyndist

fyrir í mínum vesla haus,
eldurinn, sá af ástum kyndist,
orðinn mundi þar vera laus.

3. Þannig mér í brjósti brenna
og bólgnum hjartans innra parti
(eingi veit, nema eg, þann hita)
elda síur fryggda nýjar:
að ef legjum lækja bráa
lyptag ei rétt á bálið þetta,
hausa mér um móta kløfsu
mundi stikaud kúpa sundur.

---

## Rósin*).

1. Alíkt og sól í heiði hreinu
hrekur tindrandi stjørnu ljós
við morguntíðir, allt að einu,
ó þú hjartkæra litla rós!
þá framm úr grænum bøndum brýzt,
blómríkið allt í felur skýzt.

2. Við þína komu opt eg undi,
ánægju mikla vonin skóp;
að þeim grænkanda litla lundi
laungunarfullur títt eg hljóp,

*) Gamans og Alvoru I. B.

þá vetrar hams' um flet og fjöll
fleygði náttúran lifnuð öll.

3. Þá mér af brá um bjarta morna
blíðhægi létti sér á skopp,
áður en röðuls aldinborna
ilgeislar spreingdu jurta topp,
en smárra fugla lota laung
lagaði hvellan óttusaung.

4. Þá gekk eg mig í grænum lundi;
glitraði jarðar morgunskaut:
ánægju títt mér hrollur hrundi,
hvítmerluð[1] þegar niður flaut
af limbáruðum lystitrjám
leiptrandi dögg í hneppum smám.

5. Sú margslikjaða perlu prýði
pentuðum[2] stefum endurskó,
blómþrúngnu leddi leingst á hýði,
líkt sem vissi, hvað undir bjó:
að þar tímgunar tækju seim
toppsnúin rósa-börn í þeim.

6. Svo þúsund-margar stytti stundir
staður þinn fyrir lykt og sjón
að eg þinn besta aldur undir
uppá farsældar hæsta trón

[1]) hvítgjáanda. [2]) máluðum, marglitum.

skyldan býður eg skili þér
skrautinu kafin sem þú er.

7. Ei hef eg mart til æru-fúlna,
einginn skal prýða þína gref,
millum Belindar brjósta kúlna
búið hef eg þér væra dof,
hvar í skrautlegri skugga sjá[1]
skoða þig hennar vaungum á.

---

## Sauðurinn.

1. Þegar Júpíter gjørði gildi
giptíngar degi sínum á,
øll dýrin gáfu skeink, sem skyldi;
skotrar alfaðir hýrri brá.
Sauðkindin ein varð sein til taks,
saknaði Júnó hennar strax.

2. Hvar er sauðskepnan, sagði gyðja,
segið mér, hví hann kemur ei,
hver þó er meðal hjarðar niðja
hugarfrómasta kindar grey?
hví mun hann vilja verða á braut,
og velja mér einga gjøf í skaut?

---

[1]) þ. e. spegli.

3. Reidist þér eigi, gydjan góda,
(gaf henni rokkinn þetta svar)
í dag eg saudinn heyrdi hljóda,
hryggur og nidursleginn var.
Seg mér, af hverju? sárt eg bid:
sagdi Júnó, og klekuar vid.

4. Hann sagdi: mikid er eg aumur;
ull eda mjólk eg hef ei til;
hvad á eg þá svo efnanaumur,
ad gjøra Júppíter í vil?
skal eg (þad mesta skommin var),
skal eg tómhendtur koma þar?

5. Heldur vil eg minn hirdir beida,
honum ad offra sjálfum mér.
Í því nam sæta ilman leida
upp fyrir sjálfan Júppíter;
og, væri gudum gjef á því,
grát hefdi Júnó fallid í.

---

## Rjúpkarrarnir.

1. Rjúpkarrar hofdu í hjali tveir,
hver odrum gæti ropad meir.
Þegar hér um var þræta gjør,
á þúfu sinni rembdist hver;
en sýngja þóttust bádir best,

báðir segðu: eg ropa mest.
Skógarþrösturinn skal með dóm
skakka, hvor hafi betra róm.

2. Fyrir hans rétti ramar því
rembíngar höfust enn á ný,
og núna miklu meir en fyrst
af megni öllu ropaðist;
að hvorjum beggja lömdum lóm,
létu þeir málið koma í dóm,
og segja báðu Prestinn þar,
í því, að ropa, hvor meiri var.

3. Eg, sagði Prestur, ei það veit;
aumkandi sjónum báða leit,
og vildi rýma svo úr sess;
samt var þó eingi kostur þess,
fyrr enn hann segði fullan dóm
fram, um hvorstveggja þeirra róm.
Prestur, er slíka þvíngun fann,
þerði sitt nef, og mæla vann:

4. Báðir eins vel þið ropið rétt,
ropar þó hvorgi ykkar nett.
Rembizt svo lengi og ropið þér,
sem raunar ykkur geðfellt er:
byrji svananna saungur því,
sem að kraptur og líf er í,

hver þá sve viti horfinn er,
ad hlusta til, hvad murrid þér?

## Argalinn.

Kreptur gullinkambi,
þá kyn sitt lítur væna
fara um fold á ról,
líkur úngu lambi
sér lék um vøllu græna,
og lofsaung gladur gól:
leyf nú, þinn í fridi fari hani,
frægi Ása drottinn, Hrossháragrani!
því grilli eg, míuir úngar gins med spani
gali hærra en eg, og vídar flani.

## Af Kleist.

1. Mest hann fjádi menn bædi og dygdir,
manna dreyra fljóta um bygdir
lét hann, þegar lyst til þess hafdi,
og lagid fors í vidlegum krafdi.

2. Eignu frá eg uppfyltan gagni,
aldir tældi hræsninnar agni,

rækti hverki ord sín né eide,
illu ráni fólkid nam meida.

3. Hverflyndur í hjarta og sinni,
hegdadi sér í tídunum inni,
svo ad einn hann saklausan fergdi,
sáttarband vid tíu þá gerdi.

## Eptir Weise.

Módirin:

Nei, sko' þá litlu lipritá,
sem varla er úr vöggu sloppin,
í veröldina fyrsta skroppin,
hún er giptíng ad hugsa á!

Dóttirin:

Þó gasslu, mamma, sjálf þad svar,
þá Sigga fæddi litla dreinginn,
ad spjell þad væru enda eingin,
hefd' hún gipt sig í hausted var.

## Þad nýja handverk,

eptir L. A. Møller.

Fadirinn:

Hvad ætli verdi þá úr þér?

uppáfostnadur minn og mæda,
mér sem ad títt í augum blæda,
hvorttveggja það til einskis er.

Sonurinn:

Verdi eg nýtur eingu í,
úr mér þá verdur Bellesprit.[1]

## Eptir sama*).

Konan:

Heyrdu nú, heillin mín,
láttu' ockar litla nid
læra hjá skóasmid;
ábata vonin er það fín.

Bóndinn:

Hann er svo kargur, heillin mín,
hann nennir ecki neitt ad gera;
látum vid stráfinn stúdíera!

---

[1]) ódsnillíngur.

*) Hjálmar á Bjargi, bls. 6.

# Gjöf á afmælisdag.

1.

Eg bad til Guds, þá eg var ærid úngur,
og varla par eg þeinkti íllt né gott;
eg ordin tók af minnar módur túngu,
mergurinn flaug og meiníng þeirra burt.

2.

Gjálífi mitt ei gádi, hvad eg lærdi;
ad fleipra fljótt og fá mér annad starf,
það var mín lyst, og þad sem hugann nærdi;
gott, ef vid tókum þad ei oll í arf.

3.

Arfsyndar art eg eigi meina þetta,
heldur þann dug, er Drottinn fyrst oss gaf,
sem aldur skal og eptirtektin rétta,
og á ad hafa vitid fyrir staf.

4.

Þad gekk mér svo, þá aldur á mig færdist,
eg grufla tók í gomlu frædum mín;
eptirtekt þá af yfirvegun hærdist,
og mart eg leit, sem byrgt er barna sýn.

5.

Ad óttast Gud og elska, var þad fyrsta,
er mér var sagt, eg sækjast ætti ad ná:

Það væri sønn vísdóms og allra lista
byrjun, er síðug bernin skyldu fá.

6.

Að elska menn, og ellum gott að veita,
svo mikið sem eg megna kynni fremst,
var annað boð, uppfylt er skyldi eg leita:
sú væri leið til gæfu greið og skemst.

7.

Hvernig sem mér nú hefir tekizt þetta,
og hvernig sem mér heillum gekk að ná,
hagur minn þó hvervetna lét sig rétta,
þegar eg miða vildi markið á.

8.

Ei hef eg neitt, er uppá kunni finna,
að bera þér á burðardag, en sel
til gæzlu þér góðra foreldra minna
ráð, sem mér ætíð gáfust gæða vel.

# II. Frumkvedid.

## 1. Vinavísur og kukku-óskir.

Samtal vakanda og sofanda,
somuleidis ástargydjanna Sjafnar, Lofnar og
Varar, flutt í brúdkaupi Prentarans Péturs
Jónssonar og Sigrídar Jónsdóttur
ad Hólum í Hjaltadal 1780 [1]).

Vakandi:

1. Hvad er þad svefna, sem þú hefur?
sofd' ekki leingur, kunníngi!
óværdin því mér einga gefur
andvøku bid á nóttunni;
eg hefi rásad úti um stund,
ádur en nádi þínum fund.

2. Fyrst þegar af mér fotum kipti,
fór eg ad gæta vedurlags;
hafdi náttúran háttaskipti,
hefudtími var enn til dags;

[1]) Prentad á Hólum samaár.

grösin af daggar gnúdi blaut
grúfdu í sinnar módur skaut.

3. Flest voru dýr ad gættum geingin,
gat eg ei nokkurt þeirra séd;
dvali var öllum fuglum feinginn,
földu vængjunum höfuded;
einasta gáfu í giljum svar
geigvænna fossa biltíngar.

4. Medan í brjósti bilti eg þessu,
blómadi dagur Núpa-tind:
hófu þá fuglar morgunmessu,
mér þótti vera á saungnum hind;
gullegum dúni geymdir í
gnuddudu vængjum nær vid ský.

5. Hægt frá þeim sydri himins enda
Hræsvelgur knúdi fagra blæ;
burt tóku dætur brims ad venda,
bólmudu þær í víkum sæ;
Glaners frá meyju[1] greiddi ský,
glitrudu neggin foldar því.

Sofandi:

6. Var þetta framar venju, kæri?

[1]) Þ. e. frá sólunni; madur Sólar heitir í Köngseddu og Ormseddu Glenr, hvar sum pappírs handrit, þó midur áreidanleg, hafa Glornir.

Vakandi:

víslega spurdir þú mig enn!
hvert mund' eg, ef ad ei so væri,
æskja, þad sæi fleiri menn?

Sofandi:

knéskoti færdu mæta af mér,
minnur ef þetta sögnum fer.

7. Hvada raustir eg heyri gjalla,
himneskum líkar pípna dans?
Í hverri átt, þó vissi eg valla,
var sigurljóda þessi krans;
Gaungum í holt, og hlýdum á
hjartans yndælu saungva þá!

Vakandi:

8. Þey, þey! eg dísir þykist kenna,
þær sem mannelsku teingja fróns,
hverjar svo sem í báli brenna,
bjarma hrískandi funa lóns;
þeirra mjallhvítri ásján í
eru purpura litud-ský.

Ástargydjurnar:

9. Heilir, þid vinir, hveim eg unni!
hafid ei numid þessa frétt?
ad Prentari Jónsson Pétur kunni
prúdur-inngánga hjóna stétt:

Sigríðar heiti fyrrum fékk,
fagurleit sú er kysti rekk.

10. Með því náttúru myndin þúnga
mikið tekur að hessa brún,
vær hefum ora vakið únga
velferla-kvíðu, svo sem hún;
við skulum hana þylja þá;
þeir sem að vilja, hlýði á!

Sjöfn:

11. Hvívetna betur hýrum orni
hamíngjan Pétri, best er má?
af voru mæra minnishorni
muna gladværan döggvi fá!
hángi hvorstveggja end af end,
elsku-veð neggja reisi-bend

12. Untu mæríngl megindýra,
mittis gullhrínga fögur lind!
það mundi gæfu þinni stýra;
þú hans kórónu vert ímynd!
Hljóttu það, sem eg hugsa þér:
hamíngju, lán og farsælder.

Lofn:

13. Það veiztu, Pétur, þér eg unni,
þú hefir merkin greinilig;
fellur því ósk af mínum munni
(mætti eg nokkuð leggja á þig):

himins daggfalla dropi hver
dilli hagsældum fyrir þér.

14. Og þér, Sigrídur, líka lídi
lofversa minna fyrirbón:
endurborin þín edla prýdi
aldregi manna hversi sjón!
gæfan ad skauti beggja blíd
beini velferla nægri tíd!

Vør:

15. Haudur, sjór, eldar, himin, vindur,
hiti, kul, sumar, vetur, mjøll,
skýin, gres, fuglar, kvistir, kindur,
klettar, sól, máni, vatnafsøll,
líka gjervallur himins her
hversi bádum til lukku sér.

16. Þannig vér dræplíng þenna endum;
þykir oss mál ad fara heim.
Pridji, sem dulizt gat í grendum,
grípi sá vid, og færi þeim.
Látum nú spora mana [1] mel;
míuir kunníngjar, farid vel!

Tillagid af heyrandanum:

1. Hvada prýdi, reik og rædur

[1]) Þannig þad prentada á Hólum; kannske: mara þ. e. hesta.

rekka teiti firrir ekka?
hvada brúda glans og gledi
glóir á, sem megiuþróast?
Hér er Pétur, hvered oru
hlýddi greppaminni, prýddur
sóma, listum; hans vid himin
hríngi lof til þjódminnínga.

2. Hví svo margur hjarna torgi
hlýir dátt med øli nýju?
hví eru beltis bornar eyjum
báli rendar silfurskálir?
Hér Sigrídur hreppir dýran
huýsu jardar bjarma vísir;
hennar sporum hæfa kunni
hagur gæfu lífs um daga!

3. Instu hjartans akra suerti
ødlíngs hisin-birtu rødúls
mál, af orum sansa sølum
súngin eins ad raun og túngu.
Frævizt losi, gulli, gæfu,
gódum ættarsyreingis þætti!
sídan víkid, sælu takid,
sólar grams ad veldis stóli!

# Á fæðíngardag

Biskups G. Vídalíns.

1. Enn hefir röðull yfir þér,
Vídalín, merkis látið lýsa
dag, sem að unnið veit að vísa
skref eitt lífdaga skeiðsins er.
Þann mikilvæga þánka vekur:
þessi spölur er hlaupinn vel;
Guði sé lof! það til er tekur
trúlega honum allt eg fel.

2. Um þetta mund í fyrstu fót
lét þig himininn híngað færa,
hamíngju þín' og þinna stæra,
er slíkum burði brosti mót.
Því er þér skylt, með göfgu geði,
að grípa þessum degi við,
eflandi þér og þínum gleði;
það er að bestu manna sið.

3. Verði þér æ til yndis meir!
ágæti, lukka, orð og sómi
aukist þér nóg að hverjum dómi,
sem dagar fyllast fleiri þeir,
er þína fæðíng endurnýja!
endíngin komi seint og vel!

Þannig af brjósti bænir flýja,
bænheyrsluna eg Drottni fel.

## Vinakvedja Ingólfs Arnarsonar
til Júslitsráðs Magnúsar Stephensens,
þann 1. Sept. 1807.

1. Úti var eg ad einu hóti,
innan veggja þó mér rýnni
létt um brár á legi náttar
léttir harma, dauda barmi;
Arnar þóttumst enum forna
upp ad hvoli gaungu þola;
nidri þykk í þúngu vedri
þoka svamm yfir hverjum gamma [1].

2. Blöstu gnæf vid bláu rjáfri
bøkin fjalla-tinda reku;
spentu belta bólstur oltin
búngur merskis [2], frævi þrúngnar.
Flókar þendust framm um rindi [3];
fiskjar-heima lyptir geimar [4]
gufu-rákum eptir óku
eirulausir fjalla geirum.

---

[1]) Bæ. [2]) Jardar. [3]) Rindr brúkad fyrir Jörd. [4]) Þoka, er upp sté af sjónum.

3. Gegnum bliku grárra dúka
gnæfa þóttu fjarri sævi
masturtoppa tríur uppi,
teygdar úr bugdum lopti fleygdu.
Skýjum fám í freku rúmi
fleytti blær, sem þótti væru
bekum svert, og orma artar [1]
idudu fram á gyltum qvidi.

4. Fagurri sjón á djúpum dúni
dreifdu lopta bylgjur hreifdar;
þyss og drun í austur-ásum
eyrum fluttu hvíninn meira.
Þoku velti fram úr flókum
feykimiklum reykjar hnykli,
hvadan ægir digra drógu
dráttakraptar snúna þáttu.

5. Hám vard uppi hvols á toppi
hnetti grám ad vidurnámi
ofan-hvítur ara-þviti [2],
orpinn grænu jurta þorpi.,
Eyddi brádla áframm ruddum
endurhrísludum þoku vendi.
Gelmir [3] brast úr bliku álmum
bedvarkænn á fornar stedvar.

---

[1]) Eins og ormar. [2]) s. s. arasteinn í II. erindi. [3]) Örn.

6. Snúdugt þerdi[1] bogna brádum,
brákada (nidur af fjedrum[2] láku
úda hnappar hvols um typpi)
hyrnu[3] gula fóta þyrni.,[4]
Ramlegur stód í róstu-vodum,
rydi lestum, Arnar nidur,
Ingólfur, kominn á aldid veiugi
ara glitnis[5] vedurslitna.

7. Fysna hvot ad fornum þvita
fram mér hrundu bólum undan;
eldúngmenni vort eg vilda
værugjarnan líta nærri.
Hjarna kúlu[6] huldi stála-
húfa spent og grómi pentud;
bogid nef og etul augu
undan bardi sá eg stundum.

8. Hæru strýi hreykti bárum
hafid skinn á beinum kinna;
millum þess á meiru felli[7]
moldar gárar nidar skárust.
Þannig leirugar flóds í fjerúm
fallid haf um lendur stafar
feitar ædar undan stara
eggjum-tentra digurleggjum.

---

[1]) ɔ: erninn. [2]) ɔ: arnarins. [3]) nefid.
[4]) med klónni. [5]) s. s. arasteins. [6]) hofud.
[7]) herundi.

9. Nidur af vánga-fyllu sidri,
fellny inn ad jarla kynunum,
silfurleitir lokkar skulfu
lángir skéggs á midju fángi;
eptir holum haddar veli [1]
hrundu nidur ad faxi grundar
fram sem blis í fjørugum klesum
fagurmerladar [2] úda perlur.

10. Breidur hékk á bragníngs sídu
buklari, þykkur rydi miklu;
hríngum ofin um bak og bríngu
brynjustakka slitur dynja.
Sett voru klædi kífs [3] en raudu
kaungulvofna þrádar aungum [4];
gróms í korpu þvældum þremum
þoku brokdar nidri loddu.

11. Glitradi hvass úr greipa mótum
gulli vafidur fagur-skafinn
(hvítnudu geldar [5] hnúa spildur [6],
hneitir í glærum lopta smærum);
Arnar sonur hann lét hvína,
heinþyntan á ara steini;
skella lét vid áttum øllum
øldúngmenni kvedlíng þenna:

---

[1]) Hárlegg. [2]) sjá Rósin v. 4. [3]) herklædi.
[4]) kóngulóar vef. [5]) blódlausar, magrar.
[6]) hendur.

Ingólfur kvad:

12. Vaki vættir,
vaki álfar,
hamíngjur fornar,
hollar Ingólfi!
vakid, og árnid
med Arnar bur
gódra fara
gøfugmenni,
bernum Oleifi,
beztum allra
vina minna,
á Vidareyju.

13. Árnid Magnúsi
allra heilla,
heilla allra
og hamíngju.
Er mér hjartfagin
Ødlings vinar
gipt og gæfa;
gegni landvættir!

14. Buldur heyrdist barinna skjalda
bresta vid í þoku nidri;
huldar vættir og álfar aldnir
ensudu þannig landnámsmanni:

15. Heilir, Ingólfur,

og heilir allir,
sem þú vilt að sé!
Erum Ólafs nið
allir snúnir,
viljum allir vel.

16. Óskum allir,
að Magnúsi
hlotnist heilla hvað;
allar hamíngjur
Ólafs syni
vilja fylgja fá.

17. Allar gáttir
fyrir gefugmenni
skulu skygnast um:
efundgjarnir
munu æ vera
hraktir hverju sinni.

Ingólfur kvað:

18. Hrindið heilar,
happa-dísir,
fáki lagar
til fara góðra!
Skilið mér aptur
skörúngmenni
sigurgefnum
og sælstum allra!

---

## Til Biskups. G. Vídalíns.

Biskup kvad:

Rádfár, vinum horfinn, sé og fró,
(holsár svída muna mínum bjó)
eg ríd einmana um sollna grund:
sú tíd kémur, þá mín kætist lund.

Gröndal kvad:

1. Ráð þér, vini léni, frid og fró
sá er kjörin vor til besta bjó!
Fund ber saman himinsælu mund:
stund mér komin sem að kætir lund.

2. Fallvalt lífið yfir lídur skjótt,
allkaldt það er dauða dregur nótt:
En hún fagurlega feginsdags
senn brún lyptir eptir lídun hags.

---

## Til Malenu,

systurdóttur Biskups. G. Vídalíns.

1. Margt er gott og gledilegt í heimi,
þó gudlastara til þess ekki dreymi;
á sínum vegi sjá þeir eigi, að segja megi,
utan hvað þá eymi.

2. Þeir gleyma því, er Guð þeim valdi, besta,
en geta þess, er sjálfir ollu, versta;
þeir kjósa, að verði hans á herðum, hvað þeir gerðu
sér til mótgángs mesta.

3. Eg hefi lifað árin mörg og daga,
yfir neinu þarf ei stórt að klaga:
því Guðs mig hönd um hef og lendin hefir grøndum
stjórnað frá að flaga.

4. Þenna dag og þúsund aðra fleiri
þakklátur við miskun Guðs eg eiri;
en mín gleði, ef þig skeði allt að geði,
verður miklu meiri.

5. Huganum fylgir hendin jafnan mínum:
hjartnæm fyrir kjerum bestu þínum
óskin nærist, að þér tæri yndi væru
Guð af góðleik sínum.

6. Við óskina þessa eingu þarf að bæta,
eður lukku þína dýpra að ræta;
óskin fyllist, gæfan gyllist, Guði hyllist
Malena mín ágæta!

## Til Sömu, í nafni hennar sjálfrar.

Sæförin.

1. Margt er mannsins ára;
mér fólgárud bára
fegnud lítinn fær;
lygnan hafs í heidi
heitir ekkert leidi,
hún þreytir þann, sem rær.
Neyd er mér, þegar neldra fer
lítil bylgja, þá lág er ylgja
vid brimi barda steina.

2. Þegar hafsins hamur
hverfist ófridsamur
í storma strangum byl:
og bárur brotna fjærri
baki, fjellum hærri,
vil eg ei vera til;
plánki þá plaunkum frá
ødrum glidna, og gángur skridna
kann á kaupmanns ferum.

3. Mér er margt til ama;
margir sækja frama
yfir aldinn mar:
en hann er bana bedur,
og betra er ekkert vedur,
en logn og fleygi-far.

Drottins hönd yfir leg og lönd
sérhvern leidi, sem eg beidi,
heilan heim til sinna.

## Til Vinar.

1. Hvad veldur því, minn vin, ad eigi
vidfeldni þín á hverjum degi
lífgar mig nú, sem lidna tíd?
Því sér eg kinnur þínar vikna,
og þessa raudu skildi blikna?
óþolur svars eg bíd og bíd.

2. Freyst hef eg margs, ad fá þér gledi,
sem fyrrum kætis olla rédi,
getid í von og gizkad rángt.
Munu þá eingi meira kunna
meistara verkin náttúrunnar
ged þitt ad mýkja strítt og strángt?

3. Nú bólgnar ekki brjóstid þraungva
vid bleudud læti pípna saungva,
er hóst þó fyrr vid hafinn slátt.
Þú verdur ei med glasa glaumi
gjördur vakinn af þessum draumi;
þú meltir stun og mælir fátt.

## Til Sira Stepháns Þórarinssonar. 1809.

Allrísłegu reisi
repps tolli þér kolla;
henni þín haga kunni
holl gudfrædis-rolla!
hrísti þér hvergi reista
harm-nollur lukku þolla!
láti né Gerdur í Gardi
gollhríngs vid þér skolla!

---

## Til Sira E. H. 1809.

Fagni þér allt í Fúlu Kinn!
búskapar sæld og blída manna
breidi þér sundur hrokkinn skjanna,
góðvinur forn og mágur minn!
Leiki þér allt í hepnum hendum,
hvad sem eg best ad njóta veit;
mýbirid eitt, en einga brendu,
eptirskil þú í minni sveit!

---

## 2. Grafskriftir og erfiljóð.

Arni Biskup Þórarinsson.*)

Legstad hesenn. líkam sinn.
Arni Þórarinsson.
eptirskildi.
Biskup ad Hólum: borin nítjánda.
ágústi mánadar. ár seytján
hundrud.
fjørutýgi. og framar einu.
Dáð himneskri. sér dugnad jók.
í Kaupmañahafnar. háfum skóla.
lærdóms mentum. og lofi aukinn.
Utkominn aptur. afladi sínu.
frábærs gagns.
fodurlandi.
Rétt og satt: rækti fastlega.

*) Grafskriftin sjálf er gjørd á látínu af biskupi Schønheider, en útløgd af Grøndal; Þau 3 vers, undir grafskriftinni, eru frumkvedin.

í starfsemi. stöduglyndur.
og embættis. öunum trúr.
gedþekkur öllum. gódum mönnum.
Hann til himins. hédan lepti.
og fösurland. fékk hid sanna.
Forstödulausan. fól til gæzlu.
umsjá gudlegri. allan varnad.
dag fimta Júlíi. frá Drottins burdi.
ár seytján hundrud. áttatígi og sjö.

---

1. Ráksemd, hreinskilni, hjarta gott,
og hald á einerd sinni,
ordstírs þann besta veit eg vott,
er varir leingst í minni.

2. Arna Biskupi unna slíks
allir, sem manninn þektu.
Ords ef þú vilt þér afla líks,
ótraudur spor hans rektu.

3. Pad af honum, sem þolir hel,
þreyir til óska-funda.
Hans eptirdæmi vísi vel
vilja Drottins ad stunda.

---

## Magnús Legmadur Olafsson

fæddur 1728, dó 14. Jan. 1800.

Þad hrós er ei um of,
er allra vitni ljær,
efundarlausast lof
um legstadi manna græ;
Hér liggur hann, er átti
ordstír bestan, og fékk, og fær.

## Jón Sveinsson Landfysíkus,

fæddur 24. Maí 1752, dáinn 13. Jún. 1803.

Hann var
madur trúrækinn, hálærdur
og leikinn í ment sinni,
er hann aldreigi vardi til fjár;
raungódur, stiltur vel, tryggur, ordvarr,
gódskemtinn og hugljúfi hvers manns.

Otraudur lét eg ódar
ard minn sjúka finna

(guð ræð öllum gróða);
glaður em eg þess, faðir!
Lands bið eg lifi kindir,
láttu svo verða Drottinn!
Ann eg vel eptirmönnum:
orð lifir mitt fyrir borði.

## Hannes Biskup Finnsson.

dó 4. ágústi 1796.

1. Prútin af ekka þykti hjálm
þrotin Minerva sældar geingi,
yfir fram studd á atgeirs skálm,
andaðan syrgði Hannes leingi;
frá harma djúpi hvessum augum
hvarflaði landsins yfir meingi,
lifandi menn og lagða haugum,
litið jafnoka hans ef feingi.
2. Appolló horfði ofugt við,
í ángurs líka beygður keingi,
kropinn á ondvert kletta rið,
knúði hljóðdymma gígju streingi;
hverjir stölluðum hamra beltum
hljómi frá eg að eptir þreyngi,
sem að laungum í lopti hveltu
lætur margtekið: einginn, eingi.

Stiptamtmanns-inna
## Frú Sigríður Magnúsdóttir.
fædd 13. Nóv. 1734, dó 29. Nóv. 1807.

1. Hún var prúð að hverju einu
haldin, meðan leifðist aldur;
fagursamda líkams limu
láta snildar prýddi máti.
Hegðan blíð og hofdings æði
hugar ásta lotníng bugað
henni feingu hjarta innan
hárra manna líkt og smárra.
2. Rækni Guðs var hennar heiður,
og hjarta náð við menn fáráða;
lundin jefn við ama og yndi
æfilánga skepuðu gæfu.
Hvess að námi, hugar dóma
heldur skarplega jafnan feldi.
Hennar kosti hófu mesta
hvergi skeikaðir mannúðleikar.

Þér ef valið þjóða ræmi
þykir skarta hverju mest,
eptir Guðs og góðra dæmi
gjörðu það sem hagar best.

---

# Dygda
og
mannkosta minníng
## Frú Sigrídar Magnúsdóttur.

Leiptrana rætur vid ýmissar ættir
almættid festi med ramlegum hlekk,
um hálfkúlu þrúnginnar hverfulu gættir
Hoasooddnd reyríngu myndanin gekk;
þær smíast um loptin med snarkandi hvinum,
snaradar fram eptir bólstranna ginum,
og sökkva vid mótþaninn sjóndeilda=hríng.

Hérvistar dvölin, ýmsu ødru fremur,
vid eilífd borin, varir miklu skémur
eldíngu þeirri, sem frá austri kemur,
og vid sólhvílda=bedi stadar nemur;
sjø sullir týgir, sjaldan fleiri ár,
lída frá byrinn lifs, til þess ad gár
í grøf vor nár.

Æsku sjeruga glampa glis
ginnir ad kæti neista;
mentudum aldri mælir slis
metorda trappan reista;
ellina gagnid gædasamt
girnir og þeginn lukkuskamt
ad auka, framar freista.

En þegar varir allra minnst,
úngdómsins fjörið viknar;
aldri fullrosknum eigi vinnst
uppgánga, þróttur kiknar;
gamalmennisins gljúpa líks
glidnuð samteingíng, arms og ríks,
hels í fángbrögðum bliknar.

Ofsleint, ofseint er þá við andarslit,
að reiða næmt, og reikna sína daga,
þá dauðans møkkva þúngir knettir
þér niðurspenna slaknað brjóst,
og þánkinn eigi annað sér,
en grafar svelg, og svip eilífra daga;
æskunnar svæ, og fullra tíða blóm,
og aurinn fagri eigi glóir meir
en nótt og nið.

En þeim forsjálu, alla stund
er teldu sína daga,
verður dauðinn að blíðum blund',
brot ei' samvizku naga;
velbrúkuð tíð þeim fylgir fljótt
fram úr hérvista dymmri nótt
í lífsins ljósar bygðir;
þeim sigurförum flytjast í
fyri Guðs dómstól, ofar ský,
miklar og margar dygðir.

Þannig í burtu leið sem ljós,
leyfð fyri dygða gnóttir,
sitt uppbyrjandi sigurhrós
Sigríður Magnúsdóttir,
kvennprýði skreytt og kostum þeim,
er krefur Guð í þessum heim
af þeim, er orð hans rækja,
og Drottins vilja fegins fund,
í fagurbúið sælumund
Guðs barna, síðar sækja.

Hásællar Frúr við banabeð
með hýndum teingdum hryggar stóðu
segurð og blíða, fyrikvenska snild,
og aðrar slíkar, sem er hægt að sjá
í naktri prýði óssjálfráðar;
og fleiri dætur Guðs, er eingi gat
af eiginlegu yfirbragði kent,
en þeirra skart og athøfn þýða lét,
hver undir føgru fati stóð:
guðrækinn yfirgnæfði þenna skara
meðaumkan hugarlát, og lundin jøfn,
skarpvitur spekt, og lítillætis dygð.
Sú fagurbúna meyja mergð
sorgbitin niðurkraup, og neyddi Guð
með heitri bæn, að leingja líf
þeirrar lisendu frægu Frúr;
en Drottinn, blíður eptir venju, sagði:

þér vitið mína vegu eigi rétt;
fullvaxið blóm eg nem á tækri tíð,
og vil að önnur vaxi slík!
og af skyndingu skar hin mikla sigð
það dýra djásn.

Það er gæfan, sem fáir fá
fyri sitt komið endadægur,
alþýðu prís af alúð ná
og við hann lifa, dáðum frægur;
en hin blessaða besta Frú
á burtu við hann fékk að deyja,
þess fagra kynsins krónan sú;
kref eg þá fram, er annað segja.

Að hún var mín og minna stoð,
metist óskyldt við þenna hróður;
en Drottins það hið blíða boð:
þér ber að vera hverjum góður,
það rækti hún af hug og dáð
í hverju sem að vera skyldi;
og — það var Drottins æðsta náð,
að hún það bæði gat og vildi.

Eptirdæmið var yður sett,
ó þér hjartkæru landsins dætur,
að feta mannkosta feril rétt;
fyri það eina Drottinn lætur
allri blessun á lífsins leið,

og lífs þegar allir kraptar hnigna,
vidur lífdaga skundad skeid,
ad skautum ydar nidurrigna.

---

Freken Sigrídur Magnúsdóttir,
Stephensen,

fædd 28. Oct 1789, dó 19. ágústi 1805.

Hún var gáfum. gædd hid besta.
sýnum fögur. svinn ad mentum.
gód hvervetna. gætin, stødug.
þolbetri flestum. í þrautum sótta.
Gudi hlýdin. og gódu foreldri.
hvers manns hugljúfi. og húsins prýdi.
Gud hana tók. en gaf oss eptir.
hennar dygda. dæmi fegursta.

1. Hér geymist lidid lík,
lifendra spegill skær,
ad dád og dygdum rík,
Drottni og mennum kær,
Sigrídur bestum borin;
um minníng hennar gott ord grær.

2. Þannig er lífsins leið:
hún liggur bratt og slétt;
sólskin og sollin reið
sveimar á hverjum blett;
örlaga dísir æða,
hvert sem þær spinna rángt eða rétt.

3. Þá mótlætis linur blær
á lukku trjáblöðum sést,
ellegar um þau slær
ákafa þeyrinn mest,
samt er Guð í þeim gusti,
og lognið gefur leiða best.

4. Hann tekur sæla sál
í sína verndar hönd,
þá lífs afmælt er mál,
með sér á dýrðar lönd;
elskendum eptirskilur
fexin dygdanna fagurþend.

5. Þannig að legi leið
lík hinni fegru sól,
við lífsins lokið skeið,
og lifendum sýnir ljós
besta dygdanna dæmi
Sigríður Guðs í skaut og skjól.

6. Vér þreyjum eptir, enn
alsæla þín er gjörð,

vonum, ad sjá þig senn,
sæla hvar oss er kjörd.
Líkist þér allir úngir
ad háum dygdum hér á jörd!

---

Vid fregn
um lát Stiptamtmanns
## Olafs Stephánssonar
1812.

Grátur og harmur gjarnan ber
gledinnar lopt í huykla.
Fridi mig Drottinn! fallin er
fátækra styttan mikla.

---

1. Þó daudans armur oss
adskilji, munum vær
hver edrum kærleiks koss
komandi gefa, nær
lambsins hjá tignar tróni
hver annan þekkja aptur fær.

2. Gledinnar hrepta hnoss
hverjum í brjósti slær;
ei daudi, kvøm né kross

kann okkur skilja sjær;
samveran vor hjá Gudi
eilífum medur eldum grær.

---

## 3. Vísur um forsjón Guds.

### Gud rædur en menninnir þeinkja.

1. Þó vér brjótumst í þánka svifum,
og þykjumst hafa rádin lagt,
ætlanar sylling ef vér lifum,
ólíkt var tídum gjört og sagt.
Rád þitt á hendur honum fel,
í heiminum allt sem gjördi vel.

2. Finnir þú lyst af frómu hjarta
til farsældar auka þíns og lands,
hjá Gudi þau rádin gódu starta,
gefst þeim og líka blessun hans;
og ákjósanlegan enda fær
allt, því hann gjörir betur en vær.

---

Miklu treysta menn um það,
máls sé vörn á bordi,

ef hendur kreystir Herrann að
hjálmunvalar sporði.

---

Við skulum ætíð geta góðs
til Guðs á hæðum;
hann mun mæðu allri eyða,
og okkur framm með sóma leiða.

---

## Guð gjörði allt vel.

1. O, hvörsu blind er borin þeirra hyggja,
þann besta Guð er eigi sjaldan styggja
með því guðlausa, gárúngslega tali:
gott finnist ei í þessum tára dali.

2. Hljóta þá eigi allir himni undir
ótelulega fleiri gladar stundir,
en hinar, sem að halda þeim í taumi
frá hættulegum sæludaga glaumi.

3. Þeir vita ei af vinskaparins gæðum,
velþóknan af þeim kennir Guð á
hæðum:
því að kærleiki, kendur manna sonum,
kom, líka svo sem annað gott, frá honum.

4. Þeir vita ei um verkun æðri dygða,

sem vendir mönnum upp til himna
bygða,
meðan þeir enn nú eru niðri á jörðu,
og verkin Drottins míns í leyni gjörðu.

5. Hafa þeir aldrei neinar gefið gætur
að grúa þeim, sem tindrar allar nætur
um himinfestíng fagurlega bláa,
né feingið þar við andans lyptíng háa?

6. Sáu þeir aldrei sólar-bard á fjellum
senda lífið og varmann hlutum ellum?
mun eingi dögg í morgun-blæar þytum
mála þeim furðuverk af hverskyns
litum?

7. Þetta er minstur hluti Herrans gjafa,
er hver með eðrum fékk, og notið hafa;
hjá hverjum, nema hyggjulausum dára,
hafa þær olla kunnað sorgar tára?

8. Allt var það gott, sem Guð á fyrstu
tíðum
gjörði til hagsældar og besta lýðum;
vér erum þeir, sem gjörum íllt af góðu,
gleðinni skiptum burt við sorgar móðu.

9. Synd er, um gott ei sönnu uppi halda;
synd er þó verri, íllt í þekk að gjalda.

Þángad til lífs ei leingur kraptar orna,
láttu mig, Drottinn minn, vid henni
sporna.

---

Þegar hvör eptir ødrum allt
í vorum góda heimi
segir tálbúid, vondt og valt,
vesæld er eina geymi:
þá hryggjumst eg um hjarta þel;
hugsa til mín, Immanúel,
sem ad allt gjørir ellum vel.

---

1. Þú hugsar, Gud, um haginn minn,
og hjálpar mér alla daga;
styrk þíns armleggjar æ eg finn,
aldregi skal eg klaga.
Lífdaga skeids eg hlaupid hef
hagsæl ad mestu fara skref;
þú leidst mér þau ad haga.

2. Þú hefir, Drottinn, víst mér veitt
vinfeingi gódra manna,
þad besta, sem þú áttir, eitt
unadar hnossid sanna.

. . . . . . . . . .

---

Það er gott fyrir Guði að skarta:
Guð er hann, sem að þekkir raun,
og gjafir sem koma af góðu hjarta;
gefur þar eptir hverjum laun.
Það sem hjartað og hendin galt,
honum skal borgast þúsundfalt.

---

## 4. Mansaungs vísur.

### Unnustan.

1. Hamíngjan gæfi, eg hefði mér þjóð,
en hvern' hún skal vera, það man eg
nú ekki:
tærilát, sparsöm og tryggvasta blóð,
tilsýndar viðlíka og hún sem eg þekki;
lángt betri í geðinu, en Gröndal
og jeg,
góðsöm, en dálítið stuttaraleg.
Hægra er að óska sér, en að fá
í henni veröld stúlku þá.

2. Í húslegri sýslan er hagnýtir allt,
og hannyrða-steinka sú besta eg kenni,
góðsöm og hugul, ef geð mitt er kalt,
gjeri eg það sama, nær stutt er í henni;

koss vil eg hafa og kaffe, þá vil,
hvert það er nóg, eða slétt ekki til.
Hægra er að óska sér, en að fá
í henni veröld stúlku þá.

3. Fallega vaxin og framhreisa smá,
fæturnir eins og á þrévetru barni,
ekki so lítil, og ekki so há,
ekki so gild eða blóð eitt og kjarni;
hafi eigi mitti yfir hálfsjórðu spenn,
þnettótt um lífið og útlima grenn.
Hægra er að óska sér þannig og þrá
þvílíkar stúlkur, en að fá.

4. Hefji sig brjóstanna hvíkandi fjöll,
hlíðin sé búngud að fannhvítum dali;
háls veri lágur og litur sem mjöll,
lypti undir hekuna stallátur bali.
Leingur en til hekunnar lýsíng ei nær;
lánsamur væreg, ef hrepti þá mær!
En — hægra er að óska sér, en að fá
í henni veröld stúlku þá.

---

## Svart og hvítt.

1. Eg er skír, og sætan svert:
sú er í mínum augum bjert;

þeir sem hafa verra vit,
velji þann hinn hvíta lit.

2. Liturinn svarti sólar skot
sagt er að færi í bestu not;
liturinn sá hinn bjarti brant
bæði ljósi og varma skaut.

3. Ef þú spyr um skikk og skart,
hvert skuli til þess dekt eða bjart
muntu sjá, að sótur og sit
færa þann hinn dökkva lit.

4. Skuli, sem að víða er vart,
velkjast bæði hvítt og svart,
held eg vita hyggist, á
hverju muni fyrri sjá.

5. Þegar þú skoðar eitt og allt,
eins eru þau sem heitt og kalt;
þaraf kantu að gjöra grun,
hvert girnilegra vera mun.

6. Undir svörtu brúðar brám
blikar í hjarta glæjum skjám
heilsa fjörug, lyst og líf,
að ljósi gjör, ef kyst er víf.

## Ástarfuglarnir.

1. Ástarfugla fjöldinn stór
flyktist var kríngum mær;
hverra mikill hópur fór,
í hvirfil bar, það sem var
brúnt, og fèll um blóðin herða niður;
báru fjaðra[1] margur hulti tíður.
2. Mörri sátu margir á:
um mjallar háls gángur frjáls;
hið smáa lín og silki sá
sett af þeim; einum tveim
ætlað var í augunum að byggja,
og í brúna hríngunum að liggja.
3. Litlu kinna koppum í
kreptust þeir aðrir tveir;
spríkaði með hopp og hí
hjarta-smuglastur fugl;
nefjunum fram úr nettu hreiðri stúngu,
niður stundum drógu þau fyrir búngu.
4. Einn sig burt frá öðrum tók,
ofán fló, skreið og smó,
vængjunum sèr eptir ók
og brjósta milli dróst;
hvatti nef, og hafði skósu búna:
hver af okkur best mun liggja núna?

---

[1]) þ. e. fuglana.

# Tilhugalífið.

1.

Hañ: Ó, hvað eg elska þig!
ó, hvað eg seginn vildi
tutla og tæta mig,
til þess eg geta skyldi
í ektamaka þér staðið stað;
það er ei nóg, eg vil, og vil —
vesældin ein er heima til —
það er nú það.

2.

Hún: Við lítið, lítið eitt,
eg lifa fegin skyldi,
og eigi nöldra neitt,
nauða þó kjörin þyldi;
þú ert mér sjálfur alltíð allt;
í torfveggja skot þó troðist inn,
teygi eg mig undir vánga þinn,
og kenni ei kalt.

3.

Hañ: Ekkert eg á í ból,
ekkert sem búið krefur;
áhöldin öll og tól
einginn lánar né gefur;
og börnin hlaðast okkur á:
nakin og húngurmorða með —

mér er sem eg þau fái séð,
og þig so þá.

4.

Hún: Eg sé þinn undandrátt,
efann og kærleikslensi;
fyrst Gudi fela mátt
forsjá um okkar hreysi:
hann gefur braudid börnum med;
eins verda þau med yndi gjörd
á moldarbíng og grænni jörd,
sem besta bed.

5.

Og verdi þau nú þér
þarí lík, sem eg vildi,
og ekki meira mér
myndud eptir, en skyldi,
held eg yrdi þeim eigi skæm;
Hvad skal eg brúka ennur ord?
elskunnar staup eg set á bord;
þad tak og tæm!

6.

Han: Þú veizt eg eg elska þig;
þú veizt og, hverra vegna
ad eg svo efa mig
okkar samvist ad gegna;
og Gudi er eingi þægd í því,

að eg skynsemi skuli mót
skeika frá henni hveran fót
athöfnum í.

7.

Hún: Nú skaltu ei narra mig
(nú er sú dælan úti),
fyrst að eg þekki þig,
þumbarinn hökuskúti!
aumkunarlaus eg lifi og dey.
Þér geingur ei það góða til;
Guði mitt frelsi eg þakka vil,
og far vel fley!

---

Það sæ eg sannað: þýngst er anna,
það sem bannað hverjum er,
ef að Nanna fíngra fanna
fegur ann í leyni mér.

---

Spenti eg miðja spjalda gná,
sprikladi sál á verum;
stillíngin, sem oss er á,
ætlaði að verða á förum.

---

## Meyja ósk.

1. Upp höfum lifað ár og daga,
og vonað, svo sem meyjar plaga,
að þú skapaðir okkur dreing.
Alltíð að hafa óra-vini
af einu og því sama kyni,
allar þreytast við þenna spreing.

2. Hitt er nú okkur eitt í skapi,
að hverug þannig fjeri tapi,
við biðjum þig um vænan dreing.
Fyrir því valla vertu bánginn,
að við ei kennum honum gánginn
með okkar frekum óra-spreing.

---

1. Haldóra lukku hreppi kjer,
hún af ástum brenni!
einginn skal mín fíngrafer
fundið geta á henni.

2. Spor ef sæust góms eða grips,
sem gjört með títuprjóni,
það er skeð við handa hrips
af Hallgrímssyni Jóni.

3. Ef að mér berast efnin vond
um þá meyjuna kviku,

Þvæ eg bædi og Þerra hend,
og Þad í midri viku.

---

Um fegurd manna, framan ad sjá,
firdar aungvir kíti;
Því sínum augum silfrid á
sagt er hverr einn líti.

---

## Bónord.

Benidikt vakti bónords kvak,
bundinn ráda Þroti,
efan og nedan eptir rak
Oddur í Móakoti.

---

## Madur bad Grøndal ad vísa sér á konefni; hann kvad:

1. Heldur skaltu hafid á
hætta, ullur branda, Þér,
en stadfasta lidsemd ljá
liljum gullin-banda hér.
2. Ef ad leingi bjert á brún

býdur geingi og fína trygd,
veit þá eingi, hvadan hún
hefir feingid sína dygd.

Nett vardi nóg hardur
Nikulás sinn bás:
ód í saurnum á qvidi
í austurförum sleitulaust.
Sleikir sídan vanvakur
Víkur boli sinn krík,
og fýlir gren ad kotkúnum,
en kjamsandi snapir gams.

## Reikningurinn.

Eg vil nú ekki þar um þrátta,
hvert þrír og sex eru meir en átta,
og reyni ei til ad reikna þad;
af tveimur kann eg eitt ad gera,
eg, ádur en deili, súbtrahera;
þad stykki kann eg utanad.

# 5. Aldafars-rísur.

## Samtal átjándu og nítjándu aldar á aldamótum.[1])

Átjánda öld:

1. Mér er glatt í gedinu, dóttir!
gemul stár eg hundrad ára;
þeir hafa margir mínum fargad
meyjardóm' í æsku blómi;
fjöllynd var eg, en frám mér hrundu
fólkum-djarfir mínir arfar;
man eg, þad af kosta kyni
komu dreingir frægir leingi.

2. Vilda eg yppa ærnu kappi
áa[2] minna fyrrum knáu,
mundu bóka skafin ad skikum
skorta fell[3] og pappírs-þellur[4].
Margir jadrar[5] minna fedra

---

[1]) Eptirmæli 18. aldar. [2]) forfetra. [3]) bókfell. [4]) þella er úngvidi, og litur til þess, ad Egyptar ritudu í fyrndinni á blød, búin til af basti þess reyrvidar, er vóx í í Níl á Egyptalandi; kalladist sú reyrvidar tegund pappír (papyrus), og er þadan dregid pappírsnafnid. [5]) hofdíngjar, musi. mann. 69.

mundudu slíkt, og lofstír fundu;
þann hafa mínir sælu synir
snúduglyndir og feingid prúdan.

3. Það er víst: ad lærdóms listum
lodir ei blettur fegri á hnetti,
fólkum (væun er feldar-dálkur[1]!)
færrum settur, ad telu réttri,
heldur en eyjan okkar kalda,
orpin hrími lánga tíma.
Gæt nú þess, ad gódur veitist
gamall hródur úngu sljódi.

Nítjánda øld:

4. Þekki eg hródur þennan okkar,
og það er ei sjedur tekin af ødrum,
þegar sagna-rits vid reiknum
réttan keim í Nordurheimi.
Og þér til kæti þess vil eg geta:
þínir fedur og líka mínir
efla knáttu um unnir brattar
ód og smekk hjá fleiri þjódum.

Átjánda øld:

5. Ruunid hafa til rifja miuna

---

[1]) hrós eda verdlaun; dregid af feldardálki þeim er Íslendíngar gáfu Eyvindi Skáldaspilli ad bráqarlaunum.

raunir margar á vegum bjarga:
fauda pest mér svall hid næsta,
og sóttir bólu, skædar dróttum;
eldum skutu idrin foldar,
eyddu fjám, og mannkyn deyddu;
rek eg hnuggin svinnra seggja
saknad; dóttir, vel mun rakna.

6. Mergum frædum mínir nidjar
mentagjarnir leingi þéntu;
vara munu vísdóms greina
verkin dýr í miklum tíri.
Af þeirra snild hinar eptri aldir
allar skulu mig sæla kalla.
Augun viss eg ad þér hvessi,
einka dóttir, á hinstu nóttu.

Nítjánda öld:

7. Vel eg þykjumst þetta skilja,
þúngum ódi varpar módir;
en grædistofn af gódum efnum
gína sér eg frá skauti mínu.
Kronsum gefigar bjarkir bifast,
brums eru knappar sprúngnir á sumum,
tvinnar sjóna saman línur
slúnginn runnur blómi þrúngnu.

8. Þannig rétt vid ærlum ættir

okkar hródigar, besta módir;
reyni eg árla, það af þínu
þrosska tekur meyjan roskna;
veit eg ei, því vandt er ad geta,
hvert verd eg sling ad ættarspríngi,
en það er víst: af hrundum hraustum
hafa menn von um styrka sonu.

Átjánda øld:,

9. Heyri eg lopt, til lýda giptu,
lostin gamms af fjadurhamsi;
vina kjósa vættur mínar
votri moldu tárum goldid.
Hnípnar breyta hverfum litum
heilla dísir, því ad rísa
fagurgerd med foldar skerdum
fýsleg rod ad miklum prísi.

10. Eystra kljár fyrir alda burum
ein á dýngju Gullinfíngra
vefjar hvel, en skaut á skýlum
skerdast brátt yfir líki náttar [1]).
Líd eg í burtu hálft med hjarta

[1]) Hér er því lýst, ad sólar bjarmann leggur upp á loptid, og hverfu hin sídasta nótt aldarinnar lídur á burt; Gullinfíngra, sólin, eda morgunrodinn, sem af griskum skáldum kallast rósfíngradur.

hrygg og glød frá mínum stødvum.
Lifdu sæl! vid léttum tali;
lypti þér jafnan háleg gipta!

## Eldgosid í Skaptafellssýslu

1783.

1. Nú mun þad næst, eg tíni
nauda stand, er ólandi
þjakar, svo mædu mekum
mannþorri knýst orra.
Snarpri eldsnerru vurpu
snæheklàdir jøklar;
þykkum gáus mylsku mekkva
munni gljúfra fyri Kjøi sunnan.
2. Skalf jørd, skekkust elfar,
skall gnýr hátt í fjalli;
hólkn þutu hrodid [1] fylki [2]
hart kríng Skaptfellínga.
Tvístradi (talid er) eystra
tveim og fjórum Slídur [3] heiman
eldblandin (þjak þoldi
þjód rænd) tygum bænda.

[1]) Eydt. [2]) sýslu. [3]) árheiti; hér meinast Skaptá.

3. Dreyrfád (sám vér sídan)
sól rauf edli daufu
(merski[1] van- mætir -þroska)
moldvikrada bliku.
Spýtti klofinn kletta
klúngurs óvægum þúnga
(hraud lopt rústad hin reida
reid) jardvegur til skarda.

4. Einnig er (yptu grunni
amra hjallur spúdi fjallum)
kvikir frágum logar léku
land of unn fyrir sunnan.
Vikur ad veldi hrakinn
(vindar þoku hvirfla brokum)
reisti malar frá røstum
randir vid meginlandi[2].

---

[1]) Sjá vinakvedju 2. erindi, [2]) Þetta má svo upp taka: Frágum einnig er (ad) kvikir logar léku of unn fyrir sunnan land; amra (humra, krabba) hjallur (sjórinn) spúdi fjallum, (at) yptu grunni; vikur, hrakinn frá røstum (utan af sjó) ad malar veldi (fjørunni), reisti randir (nam stadar) vid meginlandi: vindar hvirfla þoku brokum.

## Gjafmildi Kristjáns konúngs sjöunda.

1. Sjaldan er einnar eldu
alltrúanda falli;
þess kendum raun, er rundu[1]
ross á fjørgyn ossa.
Hretud[2] megri[3] hræ slítur
(herd tíd gerist lýdum)
(ern vard frjósa fyrnum
fjerstúnginn) mannhúngur.

2. En þú sást (allra bestur
Aldinborgar) neyd og sorgir
(ættjadar, hefd og heidur!)
helda stinnar vel þinna.
Lézt of báru brasta
bifrunninn þú sunnan
(mjel-víst húfur hýsti)
hinnig byrdíng virdan.

3. Pad verdur víst, þó at vyrdi
vorrar grundar stólpum hrundid,
gimsteinn sá, er vel sómir,
Sinnier[4], krúnu[5] þinni,
ad þú sjálfur í silfri

[1]) Hrundu. [2]) fallin. [3]) af megurd. [4]) konúngur. [5]) kórónu.

sendir ad gjøfum brendu
(teljum dýrra dala
drátt) þúshundrud átta.
4. Heldur sá, er eilífan aldur
ala kaus og byrjunlausan,
hjálmunvøl [1] of hilmis
hjarta skipi til bjarta.
Stímar fyrir elsku straumi,
stefnum hrinda miskun-vindar:
þángad ber lid, er lidu,
lidbón, gudlegar sjónir [2].

---

## Løggjøfin.

1. Sæmir-at hyrnu [3] hømrum

---

[1]) Stjórnvøl. [2]) Þessi vísa er ort nýgjørvingum, og er hér lýst, hvørsn Gud hneigir gæzku konúngsins til líknar þurfandi þegnum sínum. Hér er kallad brjóst konúngsins hjarta skip; þessu skipi stýrir Gud sjálfur, og situr í lyptíngu og heldur um hjálmunvøl; geingur skipid framm eptir kærleiks straumi, og blæs miskunar byr á eptir; en miskun kemur af bón þurfendra um lidveizlu: fyrir því er sagt, ad lidbón ber lid, þ. e. skipid, þángad, er stjórnarinn horfir augum fram, þad er, til þurfandi manna. [3]) Axar.

(helzt tekur eld ad kvelda
strídgjern) vinna varnir
válegar nú í málum.
Aldinborgar þvíad eldum
ætthríngur til þínga
málvørn medur oss stílar
merkari laga verkum.

2. Reiddust[1] innan raddar
reynis mál laga skálum
Dofra[2], dulin hid efra
dómhvirfíngar á þíngi.
Rírvægi[3] rédst lygi
raung, fyrir laga geingi
(sátt nam drýgd ad drætti)
dómskordad (konúngs ordu).

---

## Dómkirkjan í Skálaholti.

1. Angur er mér, þú unir
illa, módir sæl!
helzt eg gjeri í gruni,
ad glipsi þér í hæl
einhver, sem þú untir best;

---

[1]) Voru vegin [2]) Dofra raddar (gulls) reynir, mannkenníng. [3]) léttvæg.

en kreiking sú, eg kroppi þig,
kemur mér þó verst.

2. Vöglum, motri, bjöllum,
og besta skrúða þín'
haltú eptir öllum;
eins er um Þorláks skrín:
silfrið þess á þínum skín;
en hjátrúar öllum helgidóm'
hofsaðu vegna mín.

3. Að þú rambir, ruggir,
og riðir fornum hól,
veit eg; en mig uggir,
einhver spítu sól
við þitt næsta niðurbrot,
sem hverki eg né aðrir þó
eiga mikil not.

4. Autt, en eigi skipað —
allt hefir sína tíð —
mart er sumu svipað;
sundurhöggvin skíð
brenna sjaldan ætíð eins;
mart er það, sem mér og þér
til mergjar sveið og beins.

5. Eg hefi aldrei unnið
eitt að spjerum þín;
. . . . . . . . . . . .

## Áminni.

Okkar afa jörð, undir betri sól,
frelsi og frægð hvar fyrrum hafði sitt ból!
leingi lifi þú, leturgjörð um-mærð,
sem af barnabörnum bestu þínum er færð!
lifðu lofi vorra! lifðu í sögum Snorra!
hitni til þín heit ást hins, er lifir, þorra!
aðra eingin bisi undir þínu risi!
Erlíngs og Einars ættarspreingur lifi!

---

# 6. Um fornmenn og aðra.

## Cæsar.

Cæsari þótti sér ei hætt
af sællega þrifnum manni,
en skarpt í augum skal hafa blætt
skituleitur granni.

## Norðbrikt.

1. Mart er gott í Miklagarði,
málminn rauða lítið sparði
stólkonúngur stórgjöfull;
þó plútasverf og padreimis leikir

punda hundrud burtu skeiki,
eru þar hús af audi full.

2. Nordurbrikt var narri réttur,
nógu vel med Girgi settur;
allt er spekum eigi léd.
Vildi heldur strjúka, stela,
og stolinn aud í Gerdum fela,
en eiga Zóe og audinn med.

3. Augu skær úr augna tóttu
ødlíngs reif, og sømu nóttu
burtu rændi Maríu mey;
þad og fleira ætla eg olli,
Ellisif þó vid honum skolli,
sem hann kvad fyri Sikiley.

## Virgilíus.

Maróni var þad eingin æra,
ef eg mætti í søgu færa
þad, sem mín er meiníng full,
ad hann í saurnum allt gd nafla
endilángur vildi krafla,
Enníusf ad gleypa gull.

## Eiríkur fródi.

1. Eiríki var ordid sýnt
um ýmsra landa snilli;

en mørgu hafdi tauki týnt,
tród svo lygi á milli.

2. Honum var ekki herundid sárt,
hann þegar girntist frama;
ad ljúga bert eda kenna klárt,
kom honum uppá sama.

3. En fyrst sú gáfan fáa brast,
er fóru milli þjóda,
tel eg heldur lof en last
lesid um Eirík fróda.

## Vespatianus.

Vespatianus vissi, hvad
verda kynni maurum ad:
bædi bland og hrossatad
honum vard ad seimi;
ámur þvags um allan bý
almenningi leigir því;
og kapalsørd, sem koma ný,
keisarinn trúi eg geymi.

## Kjartan Olafsson.

1. Snurdadi mørgum snoppan hvít
snúru lífs, og kvenna prat;
en í hefnd ad hindra drít,
hvør nema sá hinn eini gat?

2. Eptirdæmi á eg lít:

opt́lega fleiri sátu mat;
en að sitja eðrum drít
eini Páfa sonur gat.

3. Við fjandann sjálfan blað eg brýt,
til bata Skelk er yfir sat;
en að hindra eðrum drít
eingi nema Kjartan gat.

## Herkúles.

Vel þó Herkúles vildi reyna,
að verka það hið mikla fjós,
mikið varð eptir millum steina
mykjunnar, þegar komst í ljós;
því að kvistótt með klumbu hnút
kylsan skóflaði saurnum út.

## Skarphéðinn.

1. Frá eg Héðni frægst til vígs
sima limu axla,
hvört er hann reiddi Rimmugýgs
rend eða Þráins jarla.

2. Kæmi það til að kvista bol
eða kleyma rómu drauga,
rennir fremri hyrna á hol,
hittir jarlinn auga.

3. Til hans eg aldrei heyrði neitt,
hvað er að snilldum skeiki;

en hamíngjan er ætíd eitt,
annad gjørfugleiki.

## Síphardur Saxneski.

Fyrr mundi þad, en fjendur
Frakklands rudu branda
(ord fór af illum burdi
optsinnis fyrir minna),
ad hórbirni hjarna
heidvandur á Saxlandi
(vard=at gádi fyrir gódu)
Síphardur saman bardi.

## Sigurdur Snarfari.

Sá eg gjørla, hve snarla
Snarfari mundi várar
aptur á ódals tóptir
óþerfilegur hverfa.
En vikur vetri jukust
(veit eg menn brosa) tvennar
ser, ádur sunnan trædi
Sigvardur oss í garda.

## Sigurdur Digri.

Sigurdur digri, á sinni tíd
sverda vanur dyni,

hann var sagður lands af lýð
af loðnu bjarnar kyni.

## Ægisdrekka.

1. Ægir kóngur á efri tíð
er valinkunnur þá og síð;
hans var í búri mjöl og malt,
meiðma fjeldir og sérhvað allt
(þú veizt hann inni átti boð
Ásanna fyrir mektar goð),
er þéna kunni, þurt og vott;
þar vantaði ekkert, nema pott.

2. Til Hýmis bónda í austur-átt
Ökuþórir var sendur brátt;
þar fékk hann ketil, þrekinn hrók,
er þúsund margar ámur tók;
og það var byrði þokkaleg,
að þramma með úr austurveg
heim til Ægis í eyju Hléss;
einn var Hlórriði karl til þess.

3. Svo feingu goðin Ægis öl;
en kætin hafði litla dvöl:
Því Loki drap hann Fimafeing,
frammistöðunnar snilldreing.
Sjálfselska og öfund ollu því;
en fyrir skéns og klamarí

Loka gudanna bestu børn
bundu ramlega sonar gørn.

## Sigrídur stórráda.

1. Sagt er, ad væri sein til kosta
Sigga, dóttir Skeglar-Tosta,
fríd, og hefdi ærinn aud.
Kónginum Eirík sigursæla
sveuskan á sér gjerdi tæla,
þegar honum á bed sinn baud.

2. Þadan er upphaf Olafs sænska;
øllu midur Haraldi Grænska
bónordid vid brúdi gekk:
því bædi hann og Vísavaldur
vid það gaman styttan aldur
inni í heitum funa fékk.

3. Litlu betur lyrgjan styggva
lét það gánga syni Tryggva,
er hún lángan bana bjó;
þar ed hann um skorpinskinnu
skeytti lítt, og heidna kvinnu
gilsi medur glófa sló.

4. Effkur gekk ad eiga hana
yfirbodi slægur-Dana,
tídum nefndur Tjúguskegg;
honum trúi eg konunnar kænska

klakann á, og Láfi sænska,
hryndi Svoldar vidur vegg.

5. Því ad hraustur Nordmanns nidji[1]
nema þeirra gæfu stydji,
farizt hefdi á fundi spjóts;
þar var eingi dugur í Dönum,
né dróttum Svía, betur venum
ad sleikja sína bolla blóts.

6. Svo er nú ort um svik og rosta
Siggu, dóttur Skeglar-Tosta;
allt er það sem á og bé[2].
En þetta illrar æfi stutta
ágripid, í skyndi flutta,
hennar minníng helgad sé!

## Svendarbrunnar.

1. Getid er þess í gömlum sid,
ad Svendur helgadi marga brunna,
sem í aftekum aldrei kunna
veita nú mennum líkn né lid.
Og þó menn bergi á þessum pollum,
þegar heilsan er veik og lin,
ad læknisdómi aldrei hollum
eru þeir drykkir, besti vin!

---

[1]) Eiríkur jarl Hákonarson. [2]) Það er allt hvad eptir ödru.

2. Þar sem fljótandi streingur stökk
yfir hellur og stóra steina,
styrkir hans drykkur, það eg meina,
hrjáðan líkam og hjörtu klökk.
En þessir Svonda biskups brunnar,
sem bærast lítt eða hræra sig,
með sínu vezli kalda kunna
krapti sárlitlum næra þig.

3. Hjátrú og geip um helgan dóm
hefir leidt oss á kaldan klaka,
sem varla eigum úr að raka,
fasta við þetta fíflsku gróm.
En herrann veit, að hér er eigi,
þá hugur manusins gæta fer,
utan ljónshvolpur einn á vegi,
sem illa sprotnar tennur sker.

## Skúli fógeti.

Voru gjaldkera goldin
gjöld þúng rifjum köldum;
við una verdur neinu
vart, nema snöru hjarta.
Elli var ei að fullu
einhlít, þeim að slíta:
hörð ráð bøndin herðu
harðmúluðustum Skúla.

## Sørli, er Þórdur hræða drap.

(Þórdar hrædu S. 16. Kap.)

Hér liggur sveipadur Sørla
Sørli hjúpslitrum, erleg
reynd fyr Hrædu hendum
hveim and geingu streymin.
Farmanni vér finnum
silfing skeindur at ylfast
Þórdur nam, hjør er und hrærdu
heinþyntan Lurkasteini[1].

## Berserkirnir.

(Grettis S. 21. Kap.)

Flaumgjern[2] fjarri hami[3]
fjeld þrasir[4] berskjeldud
(trollstiginn titrar hjalli)
timburvegg of leggjast.
skjaldþil- skúra muldu[5]
skrautverk[6]; fyri berserkja

---

[1]) Sídara vísuhelming má so upp taka: vér finnum, at Þórdur, skeindur silfing (sverdi), nam ylfast (ýfast vid), farmanni (Sørla), er (þeir) hrærdu heinþyntan hjør und Lurkasteini. [2]) ofbeldisfull. [3]) hamslaus, eigi einhama. [4]) Musteri mann. 109. [5]) nefnil. þeir berserkirnir. [6]) skurdverkin á þili skálans.

glidnu r. gjervar súdir
glamur-skellum; drundu hamrar.

## Grettir, er hann hélt skipi.

(Grettis S. 52. Kap.)

Fast lét fremudur rista
steinbraks orpid teinum
(hár svall súgur ad kneri,
fyrtir ál) til grunnmála.
Þróttigum ítur atti
Ægis járn Þøktum blægju
heill mót herda stalli
holskøflúngum øflugt[1].

---

# 7. Adeilu-vísur.

## Óstødugleiki heimsins.

1. Manna rasandi rád
rædur, ad gæfu hrun
áfellur opt í brád,
ódar en kom í grun;

---

[1]) Sidari vísuh.: ítur atti heill Þróttigum herda stalli, Þøktum járn-blægju, øflugt mót holskøflúngum Ægis.

flestir vita, hvad vilja,
varla nokkur, hvad verda mun.

2. Skammsýni skuggablend,
skjóthugans einkabarn,
honum til höfuds send,
sem helzt er trúargjarn,
síuum vílmegum [1] vísar
adsetursstadi út um hjarn.

3. Vertu því var um þig,
viljir þú eigin hag,
ad vinni ei slís né slig
sleikjandi túngulag;
flátt-skap og undirferli
gefdu því aldrei gódan dag.

4. Svo er veröldin veil,
og versta hleypi-skass;
þó sýnist holl og heil,
hamíngju þinni pass
ritar hún lágt í laumi,
og vonum fyrri vísar rass.

---

## Lágur sess hægur.

1. Velt í flestu veröldin er,
vænn er sessinn lægri;

---

[1]) Prælum.

að sínu láni sjái hver
seint á enda dægri.

2. Þeir, sem tyllast heldur hátt,
hrapa fyrri vonum,
þeir svífa niður seint eða brátt;
svona gekk það honum.

3. Þeir, sem bíða skin og skúr,
skeyta ei neitt um þetta,
og hafa þá ekki heldur úr
háfum seðli að detta.

---

## Lukkan.

Á þráð eru hlaupin þeirrar' gyðju
þúsund hnúta;
spá er jafnan spakra gáta;
sperríngslega' er ei vert að láta.

---

## Allt er sem eitt sé.

Héðan er eigi hót að frétta,
hærri menn og lægri stétta
alla að sama brunni ber;
allir hafa þeir eitt fyrir stafni,

eingan greini eg samt með nafni:
að brjóta það sem brákað er.

## Gæðíngarnir.

Metahlaðnir af heimsku og forsi,
helztu gæðíngar þessa lands,
yfir mig þó að lygum losi,
og leigusveina þeirra fans,
gjöri' eg þeim eigi hærra heim,
heldur enn spýta að ellum þeim.

## *Timeo Danaos, et dona ferentes.*

Fyrri mætti vera vel,
hann vináttuna sýndi,
en að heiptar alið þel
ofan á gjöfum klíndi.

## Strákalukkan.

1. Að verma í barmi vondan snák,
veldur sjaldan happi,
því íllt hafa menn af illum strák,
eins og Þráinn Hrappi.

2. Hrapps veri maka hrygg um beld
hefnd ad vidurkvæmi;
en varastu hitt, sem heitan eld,
Hákonar illa dæmi.
3. Verdur þeim vid hefndum hætt
hér eda fjær í skugga,
því sakalausra gedid grætt
Gud vill sjálfur hugga.
4. Þó leingi verdi stundum stætt
stráka lýd í skugga:
rofnar loks vid ljósid glædt
leynisáturs mugga.

---

Þó reyrt sé fast ad rembihnútum,
og rembilega talad sé,
el er ei sopid allt af kútum:
opt reisir hendin fallid kné.
Fulltrúar þínir falla í skarn;
flárædi verdur tvísvar barn.
Fulltrúar þínir falla í saur
fyrir gort sitt, og hvítan aur.
Þinna fulltrúa þykkur hams
þykir getóttur innanskamms.

---

Mun eg, ef megin treynist,
mínum skinndekkva sekkva[1] stekkva;
eiga sér ýmsir dægur,
undan ber þræla sundum stundum;
en því fastar við klá kosta,
að kverk ósleipum greipum hleypum:
skulu þá oss ei skilja
skillíngar[2] og selsk hylli í millum.

---

Verkuð stáli vala bust
viður sliður toldi;
mútur sálu mellu gust,
metaskálir helludust.

---

## Sá óheill.

Þessa alla þekki eg hjalla, þér að baki,
af skemmum fulla í karm og króki.
Kénnirðu skeytið, Pálnatóki?

---

Fjandann báðu, með fúlum anda
fast í alla lása blása,
og trella kyn, að taka á mellum,
tíða fyrri grófustu þjófar;

---

[1]) óvildarmanni. [2]) skildíngar.

nú eru þeir (og það er að verra),
sem þjóðar orði stela góðu,
frjálsir sveinar orðnir í einu
anda þess, er kallast fjandi.

---

Reitur er oss í óði
Óðinn dýr, að svírum
hlífum hleypi-þjófa
hróðurvitnis [1] ógóðum.
Litt sér fótum fjarri
frón-búss lið [2], að hlúa
(eld hefir afráð goldið [3]
illt) þeim snák í kiltu [4].

---

Hverjum ei fyrir brjósti brann,
að brugga ráð af versta grunn,
láttu aldrei ota hann
illri flugu þér í munn.

---

[1]) Þeirra er svipta mann góðu mannorði.
[2]) innbúar lands þessa. [3], beðið skaða.
[4]) barmi.

## Sá hædni.

1. Hædnismanna húngrud gern
byggur ad svelgja cunctum;
sona geingur Sels vid tjørn,
svei því aptan punctum.
2. Hér er eigi hjalad um børn,
heldur nare munctum,
sem ad lifir Sels vid tjørn,
svei því ellu, punctum.

---

Vorkunarlaust eg virdi mér og ødrum,
verøldin oss þó skeri dára-sneid:
af henni spor, eins og Postulans nødrum,
finst eigi neitt, ef hendin hrist er greid.

---

## Heimskíngjarnir.

Þeir vilja grípa himin høndum,
heimta lofdýrd med skyldu sjálfs,
hálfdaudir spyrna hørdum bendum,
hessa bolinn, í líki kálfs,
og þúngum skjóta þarma byl,
þó hefudid sé sjandans til.

---

## Sá sjálfheimski.

Jafnan skal í minni mér
madurinn skilníngs skjósi:
hann veit ei, hvert horfir ad sér
handarbak eda lósi.

## Pá, annad en Uppá.

Karlmenskan frá, og skítur á skjá,
er skyggir til ama:
Olafur Pá, Olafur Uppá,
er ekki þad sama.

## Mons.

Ordid gæti matur í Mons,
mer úr þeirri giltu,
feingi hún eigi Faetons
ferum líka biltu.

## Peir ágjornu.

Láttu þá hneisinn hvítan aur
heim í kjólskautum bera;
liggdu heldur á hordum staur,
en hyggja slátt edur gera.

## Sá ágeingi.

Eptir því sem um eg get,
eignir vina og frænda
sópa greipur sínar lét,
síðan smárra bænda.

## Ljón og birnir.

Birnir og ljón þó bítist öll í laumi,
berast þau samt af eigingirndar straumi,
og ætíð fast á einu ráði lágu,
ef dýrin skyldi myrða þau en smáu.

## Sá offvæfni.

Þú ert eins og bysfu brendur,
bálviður mikið af þér stendur;
en ills er von af illum súg.
Varla er mér, sem veikum manni,
vært að hokra í sama ranni;
íllt er að melta illan strjúg.

## Hafnar-velta.

1. Enn hvað hér undarlega
allt snýst á Hafnar grund:

vedráttan alla vega
vendir um eina stund;
eins breyta offnotrir
afglapar munnflapri
unnfoldar [1], edmildi [2],
ást og fastri lund.

2. Spekíngar þar um þreyti,
hvert þjóda sinnislag
af loptsins um sér breyti
il eda køldum brag;
hitt veit eg, hér rætist
heldur opt, ad margloptud
Hefn lætur blíd-býtum
breytt um stuttan dag.

## Dátarnir [3].

1. O, hversu mjøg ásFyggja flestra sinni
vangæzlu ský, í veru meir en dekk!
hugsun mér slík hroll vekur undir skinni,
og hyggjan verdur opt af ángri flekk.
2. Hvad gildir þó hofmennin prosjekteri,
og rísi skatt undan blódugri negl?
hvad gagnar þó húngradir exerseri,
og kroti dáta tennur kolblá hegl?

---

[1]) Sjálands. [2]) orlæti. [3]) Lærd. lista Fél. rita 10. B.

3. Veizt' eigi, hvad veldur bjargrædis
                                      þrotum,
og strauma víns, og stúlku skorti mest?
férd' eigi, hví svo margir stínga lotum?
og þekkird' eigi lands og lýda pest?
4. Þad hygg eg sé þeir, sem í raudum sloppi
boda þér blód og búinn sultar skæl,
og hverra haus tómur sidrast í toppi,
og spreingja eld med járni speingdum
                                      hæl.
5. Vær' eigi sú landplága legzt í ættir,
og hjúkrad þeim heggsnák í landa barm,
þá munda eg og adrir kynja þættir
sízt bera lífs og audar ugg né harm.
6. Þá væri allsherjar fridur í hendum
og lángtum betri áran fólki hjá,
og allt þad sem eflir velmakt í lendum;
mjøg er þeim draumi gott í mót ad sjá.
7. Þá hefda jeg og þú hid besta nædi,
ad flóa brjóst fjørugum skála straum,
sem einna mest í augum þeirra blædir,
er pýngju-stjúpan heldur hjúkrar naum.
8. Þá væri nægd af þellum snoturfættum,
er valla nú hjartlausa hryggi spja;
þær mundu víst þyrpast í øllum gættum,
og sjá til sumra blítt, et cetera.
9. Heldurd' ei mørg hundrudin málabeima

yrdu brádsókt uppvægdum bónda her,
hvers ofn og arn, og ennur sál er heima,
þá tjarga þúng af veggjum tekin er?
10. Svo þeinkjum vér um þetta og annad
fleira,
sem ei er vert ad kveda midur ljóst,
og þánki sá hreifist, svo opt menn heyra,
ad garnir belja meir en abgelost.

---

Fjarri er harka fylgisæl,
fjedrum merkud dáta eld
þó ad sparki sporudum hæl,
og spreingi af jerkum gneista fjeld.

---

## Grasa-Gvendur.

Sendt Sýslumanni Sigurdi Péturssyni, sem Sakafalls-forpaktara í Gullbríngusýslu, med þessari stöku:

Fyrst eigi er neitt í adra hönd,
á sem kunni ad velta,
þann ótínda Grasa-Gvönd
gef eg ydur ad melta.

1. Þad er skrítid um Grasa-Gvend:
hann var fátækur, fyrirlitinn,
af fóli hverju aptan bitinn;

hver kann við slíku að reisa rönd?
En — Gvøndur átti hauk í horni,
hjarta svo gott, sem verða kann,
er dygðavina vinur forni
veitir hverjum, sem elskar hann.

2. Hann gjerði hverjum gott, og var
gjefull í sínu efnaleysi;
öllum þurfandi hugð og hreysi
andlits- og hjarta-blíður bar.
Hann var lærður og lærðum unni,
laus á meiníng, ef betra fékk,
og meðalveginn kræfja kunni,
kásaði laust um allra flekk.

3. En — honum eins og öðrum má —
(það er annmarki um alla góða,
að þeim mannfýlur verstu hnjóða):
því skrímslið, sem í leyni lá,
útlimi sína tíðum tugna
tanngeiplu broddum endurskar,
eingjandi kroppinn gegnumgugna,
gott mannorð þar sem fyrir var.

4. Hún sagði: „Grafa-Gvøndur er
gegnumbakaður húðarselur,
sem varg í ullarfeldi felur,
sléttmáll, og æ með sleitu fer.
Þegar hann talar það hið besta,
þegar hann breiðúm skellir góm,

þá girnir hann ad gjera idsversta,
gruggid er inst og seyran tóm."

5. "Myndist hann vid ad gjera gott,
gefur hann sig þeim vonda fjanda,
skuli' hann ei þarí stífur standa;
hvad allir segja vissan vott:
ad hann brudli med óforstandi,
ellegar vilji mata krók;
þvíad einginn í þessu landi
þá réttu sidu Svendar tók."

6. "Kenda eg hann í Kaupinhafn;
þar var eg líka lagin ennum,
ad lúta bestu vildarmennum;
en Svendur lítid gaf sér nafn;
hann var ad flekta freka kríngum
forsprakka nýja villudóms,
en eg sem best var þá í þíngum,
þýzkan ad sloka blástur góms."

7. "Þegar á botninn biltist allt,
býst eg vid því, ad Svendur kunni
eigi sín frædin øll frá grunni,
edur kritikar kenni salt;
því hann er eigi þeirra maki,
sem þoldu bædi heitt og kalt;
þá eg gódmennid braut af baki,
þó bædi værum komin halt."

8. "Markadu þad um Grasa-Svend;

hann gruflar eigi svo sem bæri;
því hversu sem það vitlaust væri,
er honum barst í aðra hönd,
þá er hann hverju fús að fylgja
fordyldar spori þánkalaust,
og yfir hinni drjúgt að dylgja
djeflalærdómsins nýju raust."

9. "En hversu djúpt hann risti í raun,
(því hverki ljóð né lausar ræður
lægt hann þó vilja bera á glæður)
maður ei veit þá minstu baun.
Af slíkri lærdóms hamahleypu,
hvernig sem allt að lyktum fer,
mega þeir vænta mestu sneipu,
er mikið hafa vogað sér."

10. Ofundin lángtum fleira framm
færði, sem margur trúnað lagði
á, og heilagan sannleik sagði,
en Svöndi vorðið gæti skamm;
þvíað svo leiður lygi valla
ljóstar, þó ei sé trúanlig,
að hann ei færi flesta alla
framm eptir hennar villistig.

11. Forlögin segðu, flugar bjúg
færi mannorðið taka skyldi,
og þá leið, sem að lukkan vildi,
í lopta drogum gera súg.

Sagt og gjert; bædi saman fóru,
sannleikans beina þræddu stig,
og medur honum seinast fóru
seyrdri forynju krapta slig.

12. Þá lét hún geiplur gnudda vid
gegnumskorpnadar taugir þarma,
og sinna lima gömlu garma
eigi þann minsta fá sér frid.
Allt eins og grasid grær á þúfum,
grandad þeim hvassa tannar ljá,
á þeim lemstrudu lima stúfum
létu sig nýjar kertur sjá.

13. Hún med gjervöllu hyski nær
sig hafdi étid upp til agna,
er hún þeim kvitti skyldi fagna,
sem ad eigi var sönnu fjær:
ad sá fátæki Grasa-Gvendur,
gódra mannorda studdur fjöld,
héti nú madur hilmis lendur,
og hefdi mikil veizlugjöld.

14. En þessi vættur lædulig
lidadi sig í þúsund hrínga,
ádur en vildi hún á því stínga,
ad, til ad frelsa sjálfa sig,
ekkert nú sæist undanfæri,
utan Smjadrinu dorga fyr;

það vissi hún eitt, sem ellum væri
uppþefdargjernum flugabyr.
15. Frá þeirri tíd eg hef ei hót
heyrt um Ösundar kríngin læti;
það vita menn, hún fordar fæti,
og kemur sjaldan á manna mót.
Því er hún ei vid þessa segu
(þúsund er véla róan hál),
hefir þó Smjadri hjartaregu
á huldu lagda falid mál.
16. Þennan Ösundar Advókat
(þarí fráleitan illum ødrum
ad hann svo lítid þarf af fjedrum)
sjálfur djefullinn mikils mat;
og honum siga aldrei vildi,
utan þá mikid lægi vid:
ad æru sín' og sinna skyldi
setja aptur í skroppinn lid.
17. En, eg hef tekid þenna þjóf;
þekkir nokkur sitt einkakenni?
myndad er smjadur mitt í enni,
húkir Ösund í hnakkagróf;
sveiflar í bugdum sætri túngu
sem honum aldrei vefstum haus,
gegnum þau mjúku láta-lúngu
lifur einardar fullum gaus.
18. Þennan meinlætum merkta kall

mér væri brák til leingdar lýsa,
hvad mín er bædi von og vísa,
sem ekkert hefi sakafall.
Einstaka díl um bak eg brendi,
svo betur mættud kénna þér;
hvad eg vin mínum, Grasa-Svendi,
gól, ad hann skyldi forda sér.

## Sigurdur Pétursson kvad:

Med þessu nefnast skjal skal,
ad skammhendri málssókn þegar hreisi,
og þad í fullu laga leysi,
Logmadur Herra B. Grøndal
Øfund í mót. Ad málsins raun
mun eg samþykki dómsins passa;
sér má hann vænta valin laun
af vorum Íslands júslizkassa.

## Grøndal kvad:

1. Þó ad eg vildi vinna plóg
af vorum Íslands júslizkassa,
og spenna mót hverjum Spradebassa,
minn veika loga vissi nóg:
þá er ei, primó, sagt, ad sæmi,
mér sigad verdi á hvørn og einn
þræl, sem úr ýmsum áttum kæmi,
á hvern ad passar mylnusteinn.

2. Secúndó, hefi eg sagt það fyrr:
Osund nú hvergi er að finna,
í iðrum dulda barna finna;
svo eg óhætt má sitja kyrr.
Þángað sem meiri þersin krefur,
þángað sem Smjaðrið sleikir gólf,
vísa eg þér, sem vísað hefur
vanan harðskeyti bakkakólf.

## Konstitútíón:

Í þeirri meir en vissu von,
að vilji minni skikkun gegna
uppá Júst́ísar vorrar vegna,
Valdsmanninn Herra Pétursson
smjerugu set eg Smjaðri mót.
Smurníngu síðar skal eg passa
honum, og mikinn mannorðs kvót
af mínum hvorndags Sparikassa.

---

## Ráðið.

Hossir þú heimskum gikki,
hann geingur lagið á,
og ótal asna stykki
af honum muntu fá;
góðmenskan gildir ekki,

gefdu duglega á kjapt:
slíkt hefir, þad eg þekki,
þann allra besta krapt.

---

## 8. Um kvedskap.

### Eggert Olafsson og Jón Þorláksson.

Sídan Eggert sáladist,
og svipti landid heilla von,
fáir semja ljód med list,
nema listamennid Þorláksson.

---

Þó menn leiti þar og hér
í þjeludum kvæda snidum,
hinna maki einginn er
af ellum rímna smidum.

### Jón Þorláksson.

1. Þad var mesta ofdirfd af
ótilkjernu flóni,
ad rista þenna þussastaf
Þorlákssyni Jóni.

2. Hvert sem það er rángt eða rétt,
ritar hann allt með snilli,
þegar öllu upp er flett,
og ekkert þar á milli.
3. Það er mart, og það er so mart,
þulið í feldinn gráa,
sem ei er bert, og ekki vert
eptir neinum að hváa.

## Árni Böðvarsson.

Þegar Árni ýtir ergum Frosta tólum
út úr Akra vör,
vitið frá sér flýtir; ferst það allt í hjólum,
þeim er snúast snör.
Þá slíkir koma sótraptar af sjónum,
settir fram af Árna-kvæða-grónum,
fretar allt og fratar inn í lónum,
fælast allar landvættir af trjónum.

## Gissurar Rímur.

1. Lögmaður Sveinn hefir lista vel
lagað óð um Gissur jarl;
en það eitt eg undan tel,
að hann lofar vondan karl.
2. Eg hefi heyrt, að skáldin skír
skyldu lofa sanna dygð,

og einginn lifi diktur dýr,
dáð nema verði fagurskygð.

3. Gissur og Hákon binda á band
báða það hið sama vil:
þessir væltu þegna og land,
þeirra prís er einginn til.

## Hallgríms Sálmar nýju.[1]

1. Þessum, er Fúsi þarna gaf
í þjófa lyktar posa,
birtir lítið sem ekkert af
andlegum sálma prosa.
2. Við Grímsa[1] þó fagurgróinn stein
gjeri Vigfús að tosa,
megnar þess seinna orkan ein
ekkert um hann að losa.
3. Hver mun geta, þá horfir á,
haldið sér frá að brosa,
ljósin þess gamla Hallgríms há,
og hina litlu prosa?
4. Skil eg að verði skömm mín spá
um Skefíng og fleiri Gosa,
að ljósin Hallgríms logað fá
leingi eptir þeirra prosa.

---

[1]) þ. e. Hallgríms Péturssonar.

## Nafn Eggerts og Hallgríms.

Viltú, Frelsarans vesælíngur,
voga þér framm, og skálma geyst?
láttú stirðbognar fettast fíngur
fram og aptur á þínum leist.
voga þú líkt sem tæli-tafn,
að tala um Eggerts og Hallgríms
nafn.

---

*Non semper feriet, quodcunque minabitur arcus.*

Horatius.

1. Miður en skyldi meingum ball
Mökkurkálfa nærri,
Það var íllt, að skotið skall
skæðri túngu fjærri.
2. Sér eg í lopti farir steins
frá enum mikla Þjálfa,
sem að hæfa hausabeins
hnjúkinn Mökkurkálfa.
3. Eystra lustu annan mann
elda síur Þjálfa,
en þessi geirinn gyrja kann
granir Mökkurkálfa.
4. Oft var eg, að annar því
egi hrokkinn bjálfa,

eptir vonum velktan í
vætu Møkkurkálfa.
5. Fara teins af frekum gný
fjalla tindar skjálfa,
idur-kodra æd er því
opnud Møkkurkálfa.

---

## Nornaflagur.[1]

1. Vard í myrkrum hyggjan huld,
hnífurinn stód í kúnni,
Þá Urd, Verdandi og einnig
Skuld
allar geingu af trúnni.
2. Heyrda eg fyrr, þær hløkkudu til
hallar vala kæti,
en hrósa nú sem helzt í vil
himnaríkis mæti.
2. Vid ummyndana ordid rusl
allir meina eg hljódni;
Arnarson vid brølt og busl
búinn er til úr Ódni.
4. Heimsins vit er horfid og tapt,
hvernin geingur núna?
Egi hann mig, sem allt hefir skapt,
illa er farid med trúna.

---

## Kvillanus-blesi.

1. O, þú Kvillanus úngi blesi,
(ei er vakurt, þó ridid sé)
þú ert kominn í crimen læsæ,
Konúnginn lætur uppá spé
slikka tvisvar vid tætta slík,
en til séu getin som og lík.

2. Þú mælir út med spentum sponnum
(spyr þú fjanda, hvert þad sé rétt)
konúngum bædi og kennimönnum
keskninnar lodinn slægjublett;
í útskæsum þínum ættarstór
Appolló drottinn verdur hór.

---

## Leirskáldid.

1. Vúlkanus datt í Lernu leir,
lamadur um sig nedan;
Odinn skaut, og skálda þeyr
skrapp þá laus á medan.

2. Hvert Gissur hafi Lernu leir
lapid ellegar séd hann,
þar um eigi minnsta meir —
en mylkur er Odinn nedan.

3. Ord um Skalla eigi deyr,
Odins þurku nedan;

taki hann bædi Týr og Freyr!
tarna er vótum hédan.

## Eddukenningar.

1. Það er eingi konst að klemma
krapt úr máli,
og andagiptu alla skemma
Eddu prjáli.
2. Hún er til, að taka í,
þegar titta vantar;
en skjaldan þurfa að skeyta því
nema skálda fantar.

## Grallarinn.

Þó þeir grauti við grallarann,
og gjöri hann allan vitlausan,
það kemur ekki mál við mig;
mylsnan er ekki skaðsamlig,

## Andleg sálma er orðin bók andskotalaust rusl.

1. Það er skrítið um þessa daga:
Þykir að sakna vinar í stað;

ei færi mikil af því saga,
ef andskotinn ei væri það,
sem að úr helgri sálmabók
sínar brækur til ferða skók.

2. Blindninnar vér í bendum spriklum,
bitjum heimskunnar fornan leif;
þessum vangætnis þoku hnyklum
þyrla mun tíð á víð og dreif;
á Guði hefi eg trúartraust,
hann tilbeiðslu þiggi djeflalaust.

---

## Lausa-vísur.

Þá skal gjöra bragar bót,
og byrja vel á annan fót,
þar mig kæfði háttur hinn;
hægri er eptirleikurinn.

---

Ekki er stórum art í því,
eins er það og fleira litt;
þar er einginn þróttur í,
það er eins og ruglið mitt.

---

Þó eg eitthvað reyni að rugla,
ráðast ekki kvæðin skjótt;

máské brúskud Egils ugla
úti sitji í glugga tótt.
Þótt eg nú, sem Egill ádur,
unna nenni Sónar tjørn,
ærid dýrum háttum hádur,
hvar mun vera Arinbjørn?

## Læknis hródur

og rits handlæknis Jóns Pétursſonar: Stutt ágrip um iktſýki, útg. á Hólum 1782.

1. Hvad er líf án heilsu? naudir;
hverju leingst er bjargad? fjeri,
medan tíminn mædusamur
manni daga skeidid spannar.
Þannig mekum hans ad hlynna
hirda flestir bagastirdu,
ad þeim tídin efri leidist,
eda slítist þrautalítil.
2. Því er víst, ad þessum eigi
þrýtur lof eda sómi nýtur,
hverjir sínu verki verja,
virda sjót ad hags umbótum:
og sínu láta hrærdan huga
hinum, þeim er valla skini
bárust, sínu forda fjeri,
frædis til og heilsu gæda.

3. Ydar ment sé hæstum heidri
hafin (raust og þánki skrafar),
medan sól um loptid leidir
leiptur, gullin-farfa steypta.
Læknir besti! dád er dýrsta
dveljid eingra þerfum velja,
heldur látid skrif óskreitin
skilast gjørd um fósturjørdu.
4. Noti vída læknis-letur
lendur fedra, og speki senda!
láti skrif hans lista matin
lundu, þeirri besta mundi!
Sitjid heilir, allir ýtar,
undir merkjum lukkustunda!
ritid þjódin þakki nýta!
þrotin baga stíngur lotum.

## Um ritlíng,
er skáldinu líkadi ekki.

Mér er lærdóms mentin þekk
móti dala sperdum,
en fjandinn kaupi kott í sekk,
kominn úr Nóagerdum.

# 9. Vísur ymislegs innihalds.

## um síglingu

1. Storma guð, eg stefni þér með stef-
ja hendu,
svo að Donum leiki í lyndi,
losaðu múl á sunnanvindi.

2. Hátign þín í heila viku hefir lofað
norðanvindi skýjum skúfa,
skjóta, hreyta, bilta, kljúfa.

3. Því er mál, að taka í taum á trylt-
um hundi;
láttu hann hrinda hásum anda
í holum vinda feðurlanda.

4. Sveiflaðu veldis súlum hart að sunn-
anstormi,
hver eð, sólar heitur varma,
híngað stefni skeiðum farma.

5. Nótt og daga þrýsti þétt að þunn-
um reflum;
elti, bilti ymsum geflum
yfir sæfar froðu skeflum!

6. Láti hann aldrei af með þessa eltileiki,

fyrr en veifa votum búki
vedrin fyrir Snæfells hnúki.

7. Gef honum þá ei, gudur vinda, gamanid leingur;
þessum vidju haldi hríngur,
hlaupi leystur útnyrdíngur!

8. Sem ad rídi virta vel um vod og stafna,
þángad til af gafli grefnum
gánga bugud járn í hefnum.

---

1. Sunda jörinn sig upp hóf,
sem í votu skauti
Ægis Njórun nidur gróf;
nettara fór þad mergum þjóf.

2. Veit eg, sveittar voga hreins
vidur sídur titra,
sem ad þreyttum opt er eins
ofurheittum jó til meins.

3. Hristir kollinn hefilstaung,
hrannar fannir ída;
brimi sollin, rest víd raung
rymur, vollin, kraptastraung.

4. Byljir þenja segl, ad sjá,

ſverdir[1] herdu mæta;
ledrud ſpenjar landi frá
lagar genja bordin há.

## Draumſiglingin.

1. Var eg í blundi borinn
blódhreifur edli gódu
(opt kemur dulid í drauma
daglát) eptir máta.
Þóttumſt hédan hætta
(hrein veſt fyrir ſteini),
ſvartur þángad brims er birti
blængur ſanuhvíta vængi.

2. Laus vard fótur vid ſlaſir,
feſti kaus ofar rauſnum;
laus vard glyggur ad gjóſa,
glidna heſladir reſlar.
Laus vard borinn frá báſi
brims-árvakur ſnimma;
laus vard húgur, vid hýſi
hrannþaks lendu[2] vaxinn.

3. Hlakkar Rán, hamrar ſukku;

[1]) ſtreingir. [2]) þ. e. Íslands.

hlumdi, gnast, er á rastir,
reidi valtadur, vídar
vendi ljónskorin trjóna.
Brimfall ad bruna-reimu
bar línskautadan, sýnum
ella sem vid grunn, gylli,
glaseygur máni, leygjar.

## Siglingin til Kaupmannahafnar
1785.

1. Akkers þúnga upp var létt,
undur drúnga sýndi grett;
fórum brátt vid fold á mis
fyrst hinn átta Septembris.

2. Nordan-gjóla veisdi vod,
varmann sólar leifdi rod;
skoladi belginn skafna trés
skipid helgi Jóhannes.

3. Oss og Danska eyddi ró
í þeim spanska leingi sjó;
ægis hrindir orka gegn,
austanvindur, þoká, regn.

4. Heilsan vend er ellum eins
okkar lendum nú til meins;

fullum tíu tvennum af
telst eg klíulaus um haf.

5. Pad hid eina olli stúr
opt, og meinar væran dúr;
ad af mér hristi afla' faung
útivistin hord og laung.

6. Huggun fría hef eg samt,
herrann drýgir lítinn skamt,
og efunarlaust; ad elskan hans
aflar traustri sælu manns.

## Um sama.

1. Var-at ljóst, þó ad lýstu
laung of bord undan nordur-
geimi hvívetna himin
hræfar-eldsíur glæsu.
Varp í vedri snerpu
(vidur kiknar) fallidum,
þeims úr kast komu,
kolblám of þrem háan.

2. Svo knúdi súd en reida
sólbords gota nordan
hefring ofsum yfrid,
und pól hærri sólar,
forvindis, ad né fundum

fyrr, en hángandi dránga
stolta frá steindum hylti
stafni Kaupmannahafnar.

3. Fallinn sær greypta gulli
gullstafar leingst úr hafi
turna fjöld, er fjernu [1]
stjærtypt skýjum lypti.
Reisug hátimbrud hýsi
hólm þektu, girtan Bólmar
(kvíslludu kvikum geisla
kristalsmelt) audu belti.

---

Hraud enn hallin-reidi
hrannlúngur sæ þúngan,
strítt jötun stekkvir sveita
streingfáks hoglum leingi.
Fleygir ad Fridareyju [2]
flaum-sær hjálmuntaumi,
þar er brimslitin beita
brjóst vid Ránar hóstum.

---

4. Hrína öldur hátt vid mar,
hraunin köldu sleikja,

[1]) Lands [2]) Hún er milli Hjaltlands og Orkneyja.

af Ægis veldum aflaðar
uppi feldum hreykja.

2. Hausa-brendum hafinu fjær
há-ginendum steypa,
eins og lendin ætli þær
ofar strendum gleypa.

---

Gjerr varð gustur að knerri
gunnborð-valdar norðan;
bilti fyr borðin hveltu
búngud rausn Ægi þúngum.

---

Létum (udar) frá eiði
(ei mun dælt að hæla
þysum) þvinnil-essi
þúnghúsudu skúfað.
Kjerum bið með byri
brugðið fljótar, en ugðist;
stórdu, stolnir ferðum,
strandaglópar sjá handan.

---

Skrið á vogi vírum
varð hvalfiska hyskis,

þá er marfleka mörum
mynni jarðar spýttu innan.
Risu við rønd í fløsum
rofnar spéngur segli, streingjum
háðar, en hærra líðu
harðmúlaðar súlum.

---

Vindar andi bistur hvín í heflum,
háan teygir dúka slakan þin;
springur þrúngin hvylst á spentum
reflum,
spýr um þvera furu Ránar gin,
Leður-boðum riðar lostið flaust,
farargersi hörfar fast og laust.

---

## Reiðvísur.

Tinna þunn í götum gall,
glumraði hamra veldi,
holað stál við hellur small,
hvøgludu naglar eldi.

---

Lætur brimþvara beitir
bógmiklum framm stiklað

(Þann sér eg svipult færa
sveiptan kropp) Gullintoppi.
makkreistur miðar lokki,
méldropum foldu hélar,
mistur-rót mana brestur
mjólkhring allan kríngum.

---

Bekkur of belginn dökkva
bruna veit rokinn sveita,
kælu dögg knappi þvölum
kylur hnakkreistum makka.
Lokka-mið lætur blakki
lúruðum storkan múrað,
gýl-serk grípur héla
gráfjallaðan allan.

---

Gan-óður gin froðu þenur,
gresjárnum vés árnar Blesi;
knýr tauma-knör (þruma heyrist)
kafl ísa, skafl slísum staflar.
Braukmikill brak eykur hnjúkum,
bál gaus úr tállausu stáli;
kappöldum kropp seldi hélu;
klár ljósar nár-rósir skárust.

---

Skeidbrádur skríd leidir Godi,
skammblakár gammvakur damma,
keingmektur kríngstokti þúngum
klettmolum rétt þolinn, nettur.
Ryk hnjúka rauk oki líkast
rótvidur = fóthvidu móti,
reid alinn réd bilur troda
rask þegar vaskfega flaskar.

---

## Gapa lýsing.

1. Pad er lýsíng á Gapa greyi,
gæti hún ordid skapfelleg:
Þá honum er ridid, hjálpar eigi
hann ad stilla, nær gódan veg
fyrirliggjandi fær ad sjá;
fríſar, reigist og hoppar þá.

2. Í samreid er þér mest til meina,
medan þú ekki fremstur ert;
þinn skelmir lætur skarn og steina
skjótast á reidar = fylkíng þvert;
ad þykjast øllum meiri, má
þeim merar syni búa hjá.

3. Verdi þad fyrir vamma hropti
(því vekurd klárinn litla fekk)
ad adra sjái undir lopti,

edur úr hófum fái kekk,
þá verdur Gapa svipur súr,
og seinast þeim galsa látum úr:

4. Ad hann tekur ad snurda snoppu,
snugga, reigjast og velta haus;
ólundar slefa deggvar doppu;
daufur gjörist og ferdarlaus,
og lætur, sem hann þeinki þá
um það, sem skedur út ífrá.

5. Þessa ólukku adals-grillu,
yfirkapps-girni og heimskussjas,
met og þó Gapa ekki ad illu,
eptir það eg í bókum las:
ad sálir adals í Indíá
í øsnuskrokkum bústad fá.

6. Því tel eg eigi von hins verra
(vert er ad salta þetta mál),
en girnist vita, úr hvorjum herra
hafirdu, Gapi, þína sál;
hennar fardag ei finnur mann,
fyrr en hún skilst vid líkamann.

---

## Um áflog.

1. Hogga regg vid hlustir þauk,
hnefar á nesi gingu;

eydi reidum elva skaut
ótta skjótt í bríngu.

2. Hafinn yfir grænum gein
greipar klípi skerja;
þinnull tanna þaninn skein,
þessar fúss ad verja.

---

Þorlákur (því ver)
þreytti fánga leitt stáng,
eikinn med íllt snak,
Einar vid kleinsmid.
Adþreyttur um síd
Einar hneyfdi mer-bein,
Láka spreingdi hauss hajúk;
hvissadi úr undu blódpiss.

---

Aþrisin allkræf
urdu sídar sjölspurd
þeirra Jóns og Þorsteins,
þar í grendum eg var.
Strikadi Jón med stórt brauk
Steina litla kinnbein;
gaf til sætta gedlétt
gúngan tóbaks þumlúng.

---

Komist menn í kjapta hegg
á kóngsins burdar degi,
þá er ekki gætnin glögg;
gái þid hvad eg segi.

---

## Rímubrot.[1]

1. Þegnar vandir brugdu brúnum,
blísin hvarma vurdu stór,
þegar til handa herra lúnum
hópurinn varmur þángad fór.
2. Heidnir tjörgu hlynir miklum
hreifa gerdu grun á því,
ad þeim mörgu mökkva hnyklum
mannaferdir dyldust í.
3. Ædrast hölda heidid meingi,
hrædslan drýgir vopna glamm
þá miklum fjölda manns á veingi
moldar skýin spyttu framm.
4. Lofdúng nýtur lypta gerdi
lödrudum hjálm af sveittri hlust,
og drifta- hvítum dúki þerdi
dólgur álma hjarna bust.
5. Vísir mætur vada þordi
varga sumla storkid haf,

---

[1]) Sjá Ulfarsrímur, sídustu rímu Þorláks.

og skaut vid fæti skjaldar spordi
skýlu kumli spiltum af.

6. Ennikrínglur sólkid sólu,
flegradi megins birta rík,
þá bodvar týngl vid berri sólu
blikudu, spegilstykkjum lík.

7. Hildar skártid handa fannar
hremdu sylgju brodda skil,
og lidu svarta lokka hrannar
lopta bylgjur færdu til.

8. Heill, minn drottinn, Haraldur sagdi,
og heimi-þynta kessu skók.

. . . . . . . . . . .

---

## Tíkar-Vísur.

a) um Pílu.

1. Dáin Píla heljar hyl
hunda fann í jektum;
hún var frekk ad framan til,
og fræg ad sponskum tektum.

2. Allar tíkur eg undan skil
efri og lægri stétta,
fanst þar eingi framantil
fegra gull, en þetta.

3. Eingi þarf að velja í vil
várð af spønskum tíkum;
því af reynslu það eg skil,
þær eru fjærri líkum.

b) um Tíspu.

1. Af mestu tíkna mergðum bar,
munu það sanna fleiri,
Tíspa heitin; Tíspa var
tíkunum ællum meiri.
2. Af sinni mellu sóma bar,
svo sem gull af eiri.
En Tíspa dó, og Tíspa var
tíkunum ællum meiri.
3. Hún í ællu af hundum bar,
hefð er að ættum slíkum:
því beinlínis hún borin var
af Bessastaða tíkum.
4. Ætíð loðir art, sem var,
í ættarspreingi slíkum;
kynið allt í bernsku bar.
bragð af Spønskum tíkum.
5. Í barnæskunni bergði hún á
brjóstamjólk úr skúnum,
en aldrei vildi eta né sjá
eptirhreytu úr kúnum.
6. Lundin bráð í sinni sat

af suðurlanda krapti;
olli það, hún á sér gat]
aldrei þagað kjapti.

## Mikkáls gás.

(Til Biskups G. Vídalíns.)

1. Mér er hérna markaður bás;
má eg fyrrum sanna,
höfuðeingils hafði eg gás
heita millum tanna.

2. Gæti eg við ról og rás
runnið Hafnar vegi,
í munninn fljúga mundi gás
mér á þessum degi.

3. Bæði Jóns og Boga gás
(um Biskupsins eg þegi)
orðið gæti kærsta krás
komin á þessum degi.

## Máltíðin.

Öllum hlýnar innanskamms
undir keldum vaungum:
eins og krásir Grikkja grams,

gefast ífur laungum:
smjørið súrt í hold og hams
hlaupa gjerir til og frá.
(Fagurt galaði fuglinn sá)
Feingi eg' það, sem føður Kams
fyrrum gleðja mundi,
(Fordum tíð í lundi)
tækilegt það teldi eg slams,
þá titra eg líkur hundi
(Listamaðurinn leingi sér þar
undi).

## Drykkjan.

Hér lætur Grím[1] of grímu
gánga þekk yfir bekki
(øl segir allan vilja)
að sjót dægra mótum.
Hvítínga[1] leyfðar lútu
lenður neggs gleði vendir;
þann hefir kalk, sá er kunni,
kristallegan fjallað.

## Gott og slæmt Kaffe.

Ljósrauð frá eg að leiði

[1]) horn, drykkjuker.

laug gleðibragð á augu,
en grálituð glæta
gjersálgar manna fjervi.
Lángspunnin hneig í-hrínga
hjarna lyf, mjólkur kjarni:
slík mun slétta brúnir;
slampamp grettir kampa.

## Tóbaksleysi.

Þúng var neyð, þá er meingi
þoldum alheimins foldar
(hallærið veldur hverju),
hátt reis tóbaksleysi.
Híngað héldu veingis
hestar ósvángir vestan
(reykjar totta tókum
tól) frá Leverpóli.

## Um tóbakspípu höfuð
(til Gullsmiðs Tómásar í Ráðagerði).

1. Á fjórum hausum fékk eg slig,
fimta vann eg bana;
ætli þér leingi að láta mig
labba hefuðvana?

2. Svarfaðardæla sögu þér
sáuð fyrir laungu,

og kénnid þad hún klárlega tér
um Klausa apturgaungu.

3. Hvört eg eigi nafn eda nid
(nú eg til þess svígi)
þenna Klausa þussa vid,
þad eg ekki segi

4. Hitt er víst, ad hefudlaus
heim ydur býst eg sækja,
og þá mun eigi hverjum haus
hægt, í felur ad krækja.

5. Ekki er gott (þad sýnir sig)
soddan piltum stjana,
eda leingi láta mig
labba hefudvana.

---

## Til Próf. Sira. Markúsar
### í Gördum, 1796.

Þó ad eg sé til útigángs
eingi sérdeilis kreyma,
og taum ad stytta tíma lángs,
til ydar vildi sveima,
umstranna veldur orgid því,
ad eg kotinu gugginn í
daglángt má hýrast heima.

---

## Til. F. M.

Tel eg eigi tómt mál,
að targan ydar fullbarg,
svo nett varð eigi nóg snýtt
neflausum Timburhaus.
Skollir nú við skýin oll
skræfan ydar mannæf,
hverjan fót í hend ber,
og happ segir, því að slapp.

## Einn og einn eru fjórir.

1. Að prófessor Búgge er eingin dóni,
eg hef fyrir laungu séð og reynt.
Þegar eg á himin heiðan góni
hjartaglaður opt á kvöldum seint,
sé eg það gjörla, um himininn há
stjernur greiða gáng að grund og sjá.

2. Sagði það hann Búgge sjónhverf-
ingar,
sem að ekkert væri að byggja uppá;
því að alla slíka hálfa hrínga,
hverja stjernu mergðin þykir slá,
jörðin geri sjálf, og jeg og þú;
sem við líka finnum satt er nú.

3. En að spreingi-lærdum listamanni

láðist eptir mjøg, að setja á prent,
það oss stundum úti og inni í ranni
augun gjøra bæði tvent og þrent,
yfirsjón það var ei ærið smá,
sem eg neyðist til að segja frá.

4. Þó nú væri meir en vitlaust æði,
að vilja trúa því, að allir menn
innan þessa húss og hlutir bæði,
í hringa marga snúist allt í senn,
gæti eg þann séð, er segði nú,
að ei fjórir séum, eg og þú.

5. Þessum nýja krapt af náttúrunni
núna skyldi eg segja Búgga frá,
ef eg hefði fullan mátt í munni,
og mætti eg yfir sjóinn til hans ná.
Lifi optik øll! og einn og hver,
sem að nú í dúpló sjáum vér!

---

## Herradagurinn.

1. Þegar viljugir þína sker
þannig vér girðum, krónu ber,
vit þú, að hefgi, valla bær,
þíns vilja byrðar [1] toppi nær,
er samanþrykkir þinni mynd,

[1]) líkama, hans toppur, høfuð.

þegar kónglega drýgir synd,
edur vanbrúka vilt þá makt,
sem var höfum þér í hendur lagt.

2. Svo fegins hugar sem þú vilt,
þín sæt girnd ad verdi fylt
til yfirráda lýds og lands,
leyfd undir merki tignarbands:
svo vit, ad reifdur völdum ert,
vilja þinn ei ad fáir gert,
heldur, lýdum til gagns og góds,
greidir fram krapta lífs og blóds.

3. Ossir til lukku oss og þér
allir samhuga gjeldum vér.
En ef þú geingur gøtu tjóns,
grundvellir skjálfa þessa tróns.
Hákoni gamla Gissur jall
gaf þetta blódga hlutarfall.
Njóttu feingins, sem feingu þeir
fyrir öndverdu bádir tveir.

4. Øllum, sem þína gæfu gjerd
girnast, elskada fósturjerd!
launin verdi þeim tjád og teld:
tír og hamíngja þúsundfeld.
Adrir, sem byggja eigid gagn
yfir þinn brotna lukku vagn,

ráð þeirra, allrar æru tóm,
almaktin láti verða hjóm!

---

## Arkángel.

Mikjáls bær á Bjarmalandi,
bygður nærri Vínar sandi,
(getið er hér oð gamni sums)
vil eg allir viti að standi
í vík, er tekur nafn af gandi,
hafs í botnum herra Dumbs.

## Ellin.

Ellin leikur ei dátt
okkar hausa við þrátt:
hrukkar enni holdfátt,
hnípnar vánga skinn blátt,
augun líða inndrátt,
eigi deila þau smátt;
tanna bergið gulgrátt
glíðnar burtu mishátt.

## Hestur sló hund.

Skall, þar er feingu fyllar
farm, of hlustum garmi
vega-steinn Vakurs, grannar

Vidleggs, hvorutveggi.
Þess fékk gjeld, er gildum
gein kjaptur yfir hæl-teini:
brúna rauk bríngur hófi
bitil-viggur ótryggum.

## Hrútarnir í Drángey.

Í Drángey eingan dorra þarf ad hafa;
drottinn veit eg sannleik vildi skrafa:
sjálfkrafa þar sérhver ær
á sínum tíma lømbin fær, og í reisi rær:
glíkt vid adra grípi, þad eg meina,
gaman væri ad reyna.

## Mýid í Grafníngnum.

Þó vid sperrum túngu og tenn,
trautt vid mýid fáum,
en þad er ei gott fyrir Grafníngs menn,
ad gapa' yfir mørgum áum.

## Rekaldid.

Velt hefum vær frá saltri
(vorum árrisnir) báru,
skástum skordandi festum,

skolrunnum eikar boli.
Fluttum fyrr of slétta
fagurblikandi vagú,
híngad lóns á lúngi
lagar gjøf borgid høfum.

## Forsendíngin.

Fjandinn eda Finna
fáist vid draum þinn;
hlauptu hana ad finna,
hún er nordur í Kinn;
ausi hún eldibrøndum,
svo eingi verdi fridur;
skundudu nordur og nidur,
hvar náir liggja á strøndum;
vid þann, sem þar býr,
þúngt eg á í høndum.

## Um M og N.

1. Innan í mér eg gedid grem
(gnuddar tønn um kampa),
þegar eg sé Enn og Emm
uppí lopt sem stampa.
2. Ef eg rétt vid efnid kom,
ásján lídur krampa,
og módur líki kreysti, krem,
kný og sundur trampa.

3. Yfir letra opnar gjár
einhver þó að stampi,
henter ei, þessa hver einn smár
hersporana trampi.
4. Líkama þinn í leyni tem,
líkur vefara Páli;
alla hluti eigi frem
eptir nýju prjáli.

## Roggin.

Láttu alla limina sprikla!
láttu þráðinn vindast í hnykla!
láttu vaxa kraptinn í keglum!
kreystu blóðið framm undan neglum!

## Varðan.

Þér til vegs á vegum,
vald er rísfegast alda,
mót brosir merlud ísi
mold, hlauzt norðan og austan.
Vær hefum studda stórum
steinvarða hér eina
Hrímgerði til harða
harðgreipaða lávarði.

## Altarisbrík Nikuláss-kyrkju
í Nesi við Seltjörn.

1. Einginn veit sér ætlaðan bás

í erlaganna solli:
Nú er inn helgi Nikulás
nidri' í forar polli.

2. Sá eg hann fyrri ádur í
uppháfníngar standi,
þar sem Otta om Þorska bý
þreyttan bar ad landi.

---

# Formenskan.

1. Storkun er þeim ad eiga bát,
aldrei færdan úr hreysi,
komnum annars í tvol og mát
af kúgandi bjargarleysi;
en í formensku ad gjöra gagn,
gildir torfeingid sálarmagn,
og fáum trúi eg hittist hjá
hluturinn sá.

2. Formenskan er á allan hátt
eins og katólska trúin;
hún stikar bædi stórt og smátt,
til stórrædanna búin;
lædist jafnótt med lágan koll,
líkt sem froskur í mýra poll;
gerir hæglega gambanfús [1]
gradúng úr mús. (9*)

---

[1]) stórgjörn.

## Fiski-aflinn.

Gott er að frétta sona af sjónum:
sá hinn mjói þoskur flaskar
metu-feitum aunglum á;
búum fleygja lanns í lónum
lygnum hrognakelsin, hálsi
vorum dýran verð að fá.
Glópur sneipinn grøn ófrýnir;
gárúngs fyrir spádóm sinn,
mikið! að slíku mani sýnir
miskun og gæzku, Drottinn minn!

---

1. Olafur varð í sátur seinn,
sumir flestir hlóðu:
og honum ei beindi hóti neinn
úr Herrans mjølva skjóðu.
2. Hnugginn rær á herðum beð,
og heyrist ei að klaga;
sá hefir lítt að seðja með
sína fjóra' maga.
3. Fátækt hans þó fyri mér
fegrar þessi hróður,
að maðurinn sjálfur ætíð er
iðinn og viljagóður.
4. Þó Láfi með þeim litlu sín'
láni krýndist hepnu,

fjødur er þad af fati þín',
fadir allrar ſkepnu!

## Vedrátta

21. Apr. 1803.

1. Vída um æginn vøſt upp rís,
vedur bæi hriſta,
ſvella kragi ſaman frýs
ſumardaginn fyrſta.
2. Dreyrinn Hafla drjúgum ſkamt
dróttum ſtaflar nærri;
hrannar ſkaflinn hindrar ſamt,
hans ad afla færri.

---

Framm brunar hart á himins
hvolfum (fjall-þytir gjalla)
(sól vedur sendna módu)
svert ſkýkólga bjørtum.
Allur ſkúmar, efri fjøllum,
unnbodi, þar er knýr ſunnan
heldur hardſnúnar ferdir
Hræſvelgur votum belgi.

---

## Skin eptir ſkúr.

1. Þó ad bylur bilti ſley,
og bandi hverju ſýni grand,

óar lítið opt í þey
anda mjúkum hlotið land.

2. Himin skýja huldi flaum,
hrein á eptir sunna skein;
brimið skellir storðu straum,
stein svo dillar lygnan ein.

3. Af mjell, um vetur settri í svell,
saftum grasið verður tapt;
en öll sú jurt, er undir féll,
aptur nýjum lifnar krapt.

## Norðurljósin.

1. Spritar máni um spegil-ís,
spoku veðri hrósum,
úir af stjörnum, Esjan gýs
úr sér norðurljósum.

2. Þau um loptið braga bál,
blossann trúi eg festi
allra síðast út í Skál[1],
yfir Bjarna presti.

## Við slátt í Skagafirði.

Vetur greiða högg eg hlýt
hóli, þeim af frósti kól;

[1]) So kallast hoylst í sunnanverðu Akrafjalli.

setur geisla sína hvít
sól á midjan Tindastól.

---

## 10. Um sjálfan sig.

### Sex ár í Kaupmannahöfn.

1785—1791.

Tídin lædist dauf og dymm,
dísa styttist snúra:
ár hef eg barizt eitt og fimm
innan þinna múra.

### Ferdin frá Kaupmannahöfn.

1791.

1. Lof sé Gudi, eg lokid hef
lotum Hafnar vista
nú vid aldar numid skref
nítugasta og fyrsta.
2. Höfn er bædi bjert og dymm,
blanda gledi og stúra;
ár hef eg lifad eitt og fimm
innan hennar múra.
3. Gladur tek eg glaumnum frá
og glysinu bæjar flúra;

vini góða eg þar á,
eptir sem að kúra.
4. Þannig flestir seggja sjá
sól og myrka skúra,
þar til springur þenum á
þrotin norna snúra.
5. Vina ser eg minna á mis,
mér eg burtu hasta;
Svalan flýgur Septembris
sétta og tuttugasta.

## Utanlands veran.

Sultur og seyra elti
settan á danska sléttu;
hirði eg heldur í Gørdum[1],
hjá frú Katrínu[2] búa:
fús gefur flæðar eisu
fyrir hug rakkan sprakki:
vel mundi oss um alinn
aldur í Svíþjóð kaldri.

## Skipbrotið 6. Decemb. 1791.

Benidikt kom og braut sitt far,
búðar vos hann átti þar
og sultar sýngur:
efnum spilti eldu mar,

[1]) Rússlandi. [2]) annari, Rússadrottníngu.

ekkert hann að landi bar,
nema frosnar fíngur.
Skal honum lukkan hafa horn
í hverri síðu, þar til norn-
a spotti springur?
eða gefast auðna forn,
að hann rétti litið korn,
sá vesalíngur?

## Húsleysi og jarðnæðisleysi.

Hús ei fæst að hefði mínu;
þó hafi nógan mat í skrínu,
sér þess eigi stóran stað;
og ekki fæ eg Arnarhólinn,
þó af mér selji eg bláa kjólinn;
fjandi er að gjalda fyrir það.

## Búskapurinn.

1. Þá herku frostið hríngir mest,
eg hugsa um það,
hvað í búskapnum berst mér að.
2. Beljurnar skjálfa báðar
eins og blásið strá
í hurðarlausri holu þá.
3. Undan sumrinu meiddar merar
merg og hold
á hagalausri láta fold

4. Allt er í námi — litlu lembin
leggja sig;
en það er fróun fyrir mig:
5. Að þenna litla létu slúta
lamba fans
Landfysikus og hrútar hans.
6. Saklaus með ellu soleiðis
eg sit, og geld
fyrir sviklega saumuð speld.

## Lögin.

Þó eg laga viti vés,
sem valindérar sudur um Nes,
þekki eg eingan skyldu skatt,
að skjala með, þó væri satt;
í minni heimsku mundi best að mara
flatt.

## Lærdóms-iðnin.

Ilt er og ærinn sultur
(ei er skrek, það eg segi)
(fús verður því að frjósa
friður) með lærðum gyðjum.
Eltar hef eg þær um ára
alla senn tygu þrenna
(slíkar veit eg mest metnar
mær), og er litlu nærri.

## A misjöfnu prífast börnin best.

1. Framm eg járnid frosna lem,
sirtur stod og seimi;
ekki geingur ætíd, sem
ætlad var í heimi.

2. Flest er sogt í vereld valt,
vondt hins góda bítur;
hollt er ad þola heitt og kaldt,
hjá medan æska lídur.

3. Þetta veldur, ad eg ei
undir ligg, þó bylji,
né lukku seldur færi fley
framm á djúpa hylji.

## Ætíd sagan.

Frá því eg kann fyrst ad muna,
og feingd hafdi eptirtekt,
vildi eg vid ekkert una
annad heldur, en frelsi þekt.

## Heilsan.

A haustin allir fíflar folna;
en furduverk ei lítid er:
þeir hljóta fyrst ad fortna og folna,
svo endurlifni þeirra sjer;
en hvørt minn fífill bídur bárd,
blindud skynsemi tvíla vard.

*Barbiton hic paries habebit:*

Hafi Grendal heima bein,
hann er ekki á starki,
heldur fer í helgan stein;
hafi þid þad ad marki.

I 8 I 2.

Grendal undir gref sig bjó
(gugnudu tær og fíngur)
árid þad sem Egill dó,
annar Mývetníngur.

---

# Prentvillur

blf. 33, er. 133. l. 7. sjóndyrd les sjóndýrd
— 62, dálk. 1, l. 19, dysir les dísir
— 63, — 2, l. 2, allrádendu l. allrádendur
— 66, skgr. 1. hvítgjándi l. hvítgljáandi
— 84, l. 9, Fysna l. Fýsna
— 114, l. 19, eg eg l. eg
— 178, l. 6, rótvidur: l. rótvidur
— 179, l. 12. og l. eg

---

Jón Borgfirdíngur.

